eg sje himininn og himnanna her; þetta er sá þánki, sem eg offra þeim ædsta heimsins stjórnara, þegar eg íhuga hans dásemdir, og lypti mínum augum upp til himins, og upp til þeirrar guddóms veru, hverri einúngis ber dýrkan og tilbeidsla. Hvert sæ eg litid, án þess eg finni sjáanleg kenniteikn hans allstadar nálægdar og meigi þar vid uppvekjast til ad prísa hans dýrdarfulla nafn? sjálfur eg er og hver ein manneskja, augljós røksemd hans almættis og gædsku. Jørdin og allt hvad á henni finnst, er verk þessa haga og alvísa meistara, og himnarnir sømuleidis hans almættis verk. Þessir dásømu himinkroppar, hverja min augu sjá yfir mér áfram lída á svo reglubundinn og hátignarfullan hátt, og á móti hverjum øllum jardar-hnattarins stærd er ekki meira ad reikna enn eitt sandkorn, sýna mér augljóslega hans guddóms hátign; hver baud sólunni ad stjórna deginum, og túnglinu ad lýsa nóttunni? hver gaf stjørnunum tilveru og nøfn? hver nema hann, sem er skapari allra hluta, og á því af øllum ad tilbidjast? jafnvel eg er eitt af því undrunarverda, sem hans ó-endanlega almætti hefur af jørdunni framleidt; svo litilmótleg, sem manneskjan er, þegar hún jafnar sér saman vid adrar stærri guds skapadar skepnur, er hún þó svo stór, ad hún má allt eins

vel hrósa sér af því, ad vera handaverk síns skapara og adrar hans skepnur. Ad sønnu má þad furdanlegt virdast, ad svo mikill og máttugur gud og svo vilji minnast mannskepnunnar, sem ekki er annad enn dupt, og flekkar þar ad auki svo tídum þetta dupt med misgjørdum; ad sønnu má eg med ótta upplipta mínum augum til hans, hversu mikid eg hefi hans syni, mínum frelsara, ad þakka, ó! hversu mikilsverda sje eg þá ekki manneskjuna álitna í hans augum? Í þessa þíns eilífa sonar nafni tilbid eg þig, þú allra hluta skapari og fadir! eg veit ekki betur ad helga nokkurn dag, enn þegar eg med gjørvallri sálu skoda þína hátign og nád; æ! lát því tilfinningu þinnar almáttugu gædsku verda jafnan lifandi hjá mér og hnegja minn vilja til þíns ótta. Þegar dramb og oflæti taka ad villa mér sjónir, lát mig þá minnast á þína hátign, þá mun skjótt minn dárlegi sérþótti og hroki hjadna. Þegar mitt traust á þér tekur ad veikjast, æ! minntú mig þá á þitt almætti, sem er sameinad endalausri gódgirni. Þegar eg freistast til syndarinnar hlýdni, settu mér þá fyrir sjónir þína heiløgu og skelfilegu hátign, hverrar íhugan jafnvel skelfa má þann flekkminnsta af veikum mannskepnum. Verdi eg ómiskunsamur og kærleikslaus vid medbrædur mína, settú mér

þá fyrir sjónir þá ómetanlegu velgjørninga, sem þú daglega audsýnir mér, svo óverdugur, sem eg þó er. Kenn mér ad minnast med lotningu þinna guddóms eginlegleika og þannig ad gaumgæfa og hagnýta mér þau miklu verk þinna handa, ad eg med minni adferd ekki vanvirdi þína hátign. Allt hvad eg sje á himni og á jørdu leidi mig til þín; í øllu verdi þitt háleita nafn vegsamad af mér! Þannig læri eg ad búa mig undir þá lukku, sem mér er geymd í eilífu og sælufullu lífi, hvar eg skoda mun án enda, undrast og tilbidja þína ómrædilegu hátign.

## 16. Hugvekja.

Vér høfum hér eingan varanlegan samastad, leitum því hins, sem hér fyrir ofan er. Hebr. 18.

Hvad er líf vort annad enn ólgufullt haf, á hverju vér alltaf kvída meigum bylgnanna áføllum? vort ástand umbreytist á hverju augnabliki og sú breyting aflar oss sífellt nýrrar órósemi. Forgefins leitum vér varanlegs samastadar hjá skepnunum, er vér sjáum oss sífeldt neydda til ad hrífa oss lausa frá þeim. Þegar vér þykjumst fundid hafa hvildarstad, meigum vér skjótt þreyta nýtt hlaup. Allt forgeingur og allt eydist fyrir vorum augum. Mikill hluti af þeim lifandi heimi, sem vér sáum, þegar vér

komum inn í hann, er nú ekki til framar. Nýar persónur eru framkomnar á skodunar-plázid og búast nú þegar undir ad yfirgefa þad aptur. Fátt í þessu lífi geingur oss ad óskum: þad sem vér óskum oss, ødlumst vér ekki; en þad sem vér óttumst, hittir oss. Aldrei erum vér fullkomlega farsælir: sé lukkan oss brosleit, brestur optlega heilsuna; séum vér heilbrigdir, er lukkan opt á móti oss; séum vér lærdir, høfum vér opt umsvif, sem hindra vorar ydnir; séum vér fáfródir, erum vér forsmádir; séum vér í metordum, erum vér øfundadir, og hversu óstødugt og hvikult er þá ekki vort hjarta? á þessu augnabliki høfum vér þann ásetning ad þjóna gudi, og á næsta augnabliki er þessi þánki þegar gjøreyddur af þeim hlutum, sem kríngum oss eru í heiminum. Hér er sífeld umbreyting allstadar, og von og kvídi, gledi og sorg, hatur og kærleiki skiptast ýduglega til; varla erum vér nokkurt augnablik sjálfum oss líkir, heimskulegar tilfinningar og tilfelli orsaka sífeldar biltingar á høgum vorum, og sú er manneskjunnar stutta lífsaga. Þannig er lífinu varid til þessa, og þannig mun því varid hér eptir, því á medan vér lifum á jørdunni, mun hégóminn og óstødugleikinn verda vort sífelda hlutfall; máske ad heilsan, sem vér nú njótum, breytist til morguns í daudlegan

sjúkdóm; máske sú rósemi, sem nú gledur oss, hverfi á samri stundu; máske sú von, sem nú eykur vora kæti, sé nú þegar þrotin; máske öll sú lukka, sem gledur oss nú, sé horfin fljótar enn draumur. Hver veit hversu margar ógedfeldar umbreytingar liggja kunna brádlega fyrir oss? hitt er víst, ad vér, medan lifum, getum ekki vænt annars enn þess, sem dagleg reynsla sannar og kennir. Allt í heiminum er eintómur hégómi; innan næsta dags enda, edur enn þá fyrr, má vor eigin reynsla máske sanna þad med Salómoni. Æ! því elskum vér þá svo dárlega hégómann, og útveljum þad óstöduga í heimi þessum, án yfirvegunar? en sjálfa oss fríum vér frá mörgu andstreymi, ef ad vér brúkum heiminn og heimsins hégóma í hófi. Vér gætum þá verid ánægdir og rósamir vid sérhver óþægileg tilfelli lífsins, og óstödugleiki jardneskra hluta feingi aldrei hjá oss ollad svo mikillar órósemi, ef vér ætíd hefdum himininn oss fyrir augum, hvar einginn hégómi, eingar lífsins mædusamar umbreytingar eru til.

## 17. Hugvekja.

Mín sála bídur eptir drottni, hann er vor hjálpari og vor skjöldur. Sálm. 32.

Til ad losa mig vid þessa lífs órósemi, og dára-

skap, finn eg óhultasta medalid, ad afhenda mig øldúngis á vald og vilja guds; hver er sá drottinn, hvers vilja og valdi eg afhendi mig? Þad er sá almáttugi gud, sem megnar ad gjøra enda á øllum minum sorgum; med einu ordi: sá, sem hefur medøl nóg, rád og vilja til ad bæta mér allt þad mig vantar, umbreyta allri minni áhyggju i vissa von og rykkja mér út úr øllum háskasemdum. Eg missi því alls ekkert vid þad, þó eg reidi mig á hann, sem veit hjálp og rád svo opt, sem mér á liggur. Þad, sem mønnum sýnist ómøgulegt, er hans almætti audveldt og því vanmáttugri, sem mannanna hjálp reynist, því vissari er hans hjálp, því øflugri hans adstod, svo eg meigi alls góds af honum vænta, en setji aldrei mitt traust á veikar mannskepnur. Þessi gud er og alvis, hvers vilja eg ókvidinn undirkasta mig, hann hefur ætid sinn vissa tilgáng med allt, sem hann lætur mér mæta, i hverju helzt standi, sem eg er, og þó þessi tilgángur sé mér ekki kunnur, er þad þó víst, ad hann er bædi réttvis og gódur, svo mér ber ánægdum med hann ad vera. Um hann má eg ekki dæma eptir minum veikleika og litla skilningi; eg sje ad sønnu ekki ætid hvert þeir vegir, sem hann visar mér á, muni leida mig, en þared hann hefur mér þá greidt og búid, er

mér óhætt á þeim ad gánga. Mikli guð! hví skyldi þá ekki min sál afhenda sig á þitt vald? hvað má eg óttast, þegar eg í øllum hlutum reidi mig uppá þig! á medan eg híngað til vildi sjálfur ráða yfir minum kjørum og tilfellum, á medan fór eg øldúngis villur vega; afdrifin hafa aldrei sambodið minum óskum eða fyrirtæki; alls ekkert gott hefi eg af því haft, en þar á mót daglega orsakað mér gremju og andstreymi; þeg- ar eg leitadist við að verða óhultur, bjó eg mér sjálfum fordjørfun; það, sem eg áleit mér stoð og styttu, varð mitt fall. O! minn guð! hversu miklu óhultari er eg þá, þegar eg einúngis læt þig ráða og þegar eg gjøri ekki annað enn það, sem þér vel þókknast! nú skal eg síst enda þenna dag eins og eg híngað til hefi endað svo marga mína lífdaga; eg vil lifa rólegur og vel ánægður, og því ekki leggjast í výl og áhyggju, heldur fela mig þinni føður hendi, þú almáttugi! eg vil sleppa øllum ótta, varpa allri minni á- hyggju í þitt skaut, og ekki kvíða komandi tíð, eða vera hugsjúkur hennar vegna, nema sam- stemmandi þínum boðorðum. Í djúpustu lotn- íngu vil eg fyrst yfirvega þinn náðuga tilgáng og vilja með mig, síðan, án møglunar fela mig honum á vald, án þess að hallmæla honum. Mig og allt hvað mér viðvíkur vil eg afhenda

þinni stjórnun, svo mun mín rósemi og mín lukka verda fullkomin.

## 18. Hugvekja.

Sá, sem yfirvinnur, mun erfa alla hluti — eg vil vera hans gud og hann skal vera minn sonur. Opinb. 21.

Skyldi eg ekki þakka honum, sem hefur gefid mér lífid, fyrir þad, ad hann enn þá lét mig lifa þenna dag? skyldi eg ekki prísa hans nafn, þess ljóssins födurs, fyrir hvers nád eg sjed hefi þessa dags ljós? því jafnvel þó þetta líf sé svo stutt, ad einn dagur, ein vika, eitt ár sé varla teljandi; jafnvel þó þad mannlega líf sé uppfyllt med svo mikla mædu, órósemi og sorg, ad þad telja megi því leingra, sem fleiri eru þjáninga- og mótlætinga-stundir, hefi eg þó nóga orsök á hina síduna, til ad álíta sérhvern dag, sem guds nád unnir mér, eins og sérlega blessun. Hvad eru ekki þessa heims jardnesk gædi, sem gjöra mig lukkulegan? hverki metord, ríkdómur né gódir dagar geta ollad minnar sálar rósemi, nema eg undir eins hafi góda samvitsku, viti mig frían af illgirnis syndum og lifi gudrækilega, því ekkert annad má gefa hjarta mínu rósemd, án hverrar eingrar farsældar er þó ad vænta; skyldi eg þá öfunda þá, sem gleyma gudi, þó ad flest í heiminum gángi eptir þeirra óskum, því hefnd-

in mun þó alltaf fylgja þeim, og þeir, midt i sinni gledi, nagast af samvitskunnar áklögunum. Nei! eg vil ánægdur vera med þau minni gædi, sem gud hefur mér unnt, sem þó eru lángtum meiri enn eg hefi forþénad. Gjarnan vil eg fara á mis vid margskyns ánægju og hægd, allskonar mótlæti vil eg bera med gódu og þolinmódu gedslagi, þegar eg einúngis ekki þarf ad óttast áklögun minnar samvitsku. Endurminníng gódra verka, fullvissa um guds hylli, von um nádarríka umbun, þessi ómetanlegu gædi vekja þvílíka gledi i minni gjörvallri sálu, ad eg ekki mundi skipta þeim eitt augnablik vid heimsins dýrmætustu fjársjódi. Þó eg á stundum lidi skort, veit eg þó, ad eg má vænta mér óútsegjanlegra nægta; þó eg af drambsömum verdi foraktadur, sje eg þó fyrifram, ad sú kemur tídin, þá jafnvel hinn minnsti hluti þeirra metorda, sem eg mun njóta, endurgeldur mér ríkuglega alla heimsins vanvirdu. Þó ad mig umkríngi óteljanlegar plágur, munu þær þó umbunast med ómetanlegri gledi, sem eg á sídan njóta mun; sé sá vegur mér óljós, um hvern mínum gudi þóknast ad leida mig, mun þó sú koma tídin, á hverri eg prísa og undrast mun þessa guds huldu vegleidslu. Eingar mótlætíngar meiga þá mæta mér hér i heimi, i hverjum gód samvizka

og ørugg trú ekki geti gefið mér ánægjanlega huggun; því þygg eg, ó guð! þá velgjørninga þína, sem unna mér leingra lífs og fleiri heilla, án sorgar og vøls, þar ed eg metid hefi lífsins ørdugleika og gledi ánægjufulls hjarta hvert á móti ødru og fundid þessa gledi ad vega miklu meira enn allt hitt. Eg þakka því audmjúkur þenna dag, þessa dýrmætu tíð, hverja eg hefdi átt ad brúka til undirbúnings undir eilífdina. Lát mig æ eyda mínum døgum undir þinni náðugu vegleidslu og stjórnun; en lát mig øllu framar aldrei gleyma, hvers vegna þú gafst mér lífið, brúka það eptir þínu ordi og vilja, og audsýna med øllum mínum athøfnum, ad eg sé fullkomlega sannfærdur um mína ákvørdun til þess eilífa lífsins.

## 19. Hugvekja.

Veistú bezt, Drottinn! vanmátt manns, veitstú bezt orku
freistarans, vorum herskrúda vill hann ná, vor merkis-madur sértú þá, í oss stríðandi efl vort ráð, í
þér svo fáum sigri náð.

Það er bædi tilhlýdilegt og harla naudsynlegt, ad eg á hverjum degi minnist þeirrar mjøg svo áríðandi skyldu, sem hver kristinn á ad varðveita, til þess ætíð á ný ad upphvetjast æ betur og betur til ad ástunda hana; en hversu fæ eg hana uppfyllt, ef eg ekki fyrirfram get þeim hindrun-

um af vegi rudt, sem gjöra mér minnar skyldu uppfyllingu ómögulega, og hverjar hindranir eru þó sterkari og fleiri, sem hér liggja í vegi fyrir mér, enn mitt egið hjarta, hvers veikleika til að mótstanda freistingunum, eg þekki, finn og kveina svo sárt yfir? Hversu opt hélt eg mig ekki nógu sterkan til að mótstanda syndarinnar táldragandi tillokkunum; en — eg varð á samri stundu aumkunarlega yfirunninn, og aldrei fjarlægari sigrinum yfir mínum girndum, enn þegar eg, eptir heimsku minni, þóktist vera honum sem nálægastur; hversu mjög fyrirvarð ekki mitt hjarta sig, þegar eg fann þess veikleika og þau fjötur og bönd, með hverjum lystin til ens illa hafði mig bundið? eg sá á ný þenna óvin lángt frá mér, gekk honum með stöðuglyndi á móti, til að fá hann yfirunnið með nýum hetjumóði, en fyrr enn til þess kom, varð eg fángaður í þeim snörum, sem lagðar vóru í veginn fyrir mitt vareygðarleysi, og eg varð á ný hertekinn af þessum mínum sigrara. O! hversu blygðast eg nú við þetta í hjarta mínu, og hversu ólukkulegur hefði eg loksins orðið, ef ekki sú öfluga hetja af kyni Júda hefði frelsað mig frá dauðanum. Skyldi eg þá héðanaf á ný verða þessum mínum frelsara og sáluhjálpar höfundi ótrúr, þó mig kosti það baráttu, vegna míns veika og óstöðuga

hjarta, ad vera honum stødugléga trúr? hvad hjálpar mér ad keppast eptir lífsins kórónu, hverri eg sjálfur fæ þó ekki náð vegna míns vanmættis? hvad hjálpar mér ad sporna vid því vonda, ef það, eingu ad sídur, dregur mig med sér? hvad nota mér øll mín dygdugu fyritæki? hvad gagnar allur minn ásetníngur til gudrækilegra athafna, þegar ein lítil hreifíng minna syndsamlegu girnda kollkastar þeim grundvelli, er eg vildi reisa á nýrrar gudhrædslu byggíngu? vertú þó eingu ad sídur óhrædd, ókvídin og hugh raust, mín sál! þú hefur þegar unnid mikid, þegar þú kannast vid þitt vanmætti; ad þú svo þrálega fallid hefur, kemur af því, ad þú ráng- lega ímyndadir þér, þad þú feingir stadizt med þínum eiginn kroptum. Þú ert veik, og því þarftú hjálpar vid, en hana fær þú, bidjir þú af alvøru um hana. Líttú til hans, er borgad hefur fyrir þínar syndir; þinn Jesús hefur sjálfur verid freistadur; hans alvitska og nærgætni þekkir tillokkananna mátt, freistinganna hættu og strídsins ørdugleika; mundi hann þá ekki hafa medaumkun med þér? jú, vissulega mun hann þér vorkunsemi veita! gjør þú mig, ljúfi lausnari minn! æ meir og framar fullvissan um veikleika míns hjarta, en ásamt um þad, hversu reidubúinn þú ert ad styrkja mig í øllum freist-

ingum, þá skal eg aldrei láta mér hugfallast, heldur svo leingi sem eg lifi, stríða í trausti þíns guddómlega kraptar; þá mun eg loksins, fyrir hjálp þína og adstod, sigurinn efalaust úr býtum bera.

## 20. Hugvekja.

Taktú vara á þeirri hentugu tíd og vara þig fyrir því vonda, svo þú ekki verdir til skammar. Sirak. 4.

Vort líf á jørdunni er viðvarandi furduverk guddómlegrar miskunar; tídin, á hverri hann unnir oss þessa veika lífs, er áþreifanlegt merki guds gædsku. Í oss og voru holdi býr ekki einúngis ekkert gott, heldur høfum vér þar ad auki drýgt margar syndugar athafnir, med hverjjum vér verdskuldad høfum réttlátan daudadóm. Eins opt og vér brotid høfum guds bodord, eins opt hefdum vér verdskuldad lífid ad missa; en þessi tími er enn þá ómetanlegur guds velgjørningur fyrir oss, þar hvert eitt augnablik, sem vér lifum, er ný nád, sem gud audsýnir oss. Enn þá undandregur hann vora fordæmingu og daudadóm, til þess ad unna oss frests ad brúka betur þad líf, sem vér svo illa høfum framdregid híngad til. Ad eyda þessari tíd, ónytsamlega og syndsamlega, væri ad vanvirda guds óendanlegu gædsku, væri ad brjóta af sér

hans náð, væri einkis að virða eilífðina. Hvílík fásinna er það þá ekki, að vilja ekki brúka vel svo dýrmætan hlut, sem lífið er? að vér viljum eyða til einkis tíð vorri, þar með setja vora eilífu velferð í vogun í syndanna skammvinnu gleði, og láta vora von um ódauðleikans fullsælu, hverfa burt frá oss eins og reyk; eingínn er sá dagur, einginn sá tími, ekkert það augnablik, sem ekki sé oss markvert og áríðandi í tilliti til eilífðarinnar; einúngis eitt tapað eður eydt augnablik, mætti því vekja lángtum stærri sorg hjá oss, en þó vér míst hefðum mikla lukku; og þó er þessi dýrmæta tíð optlega fyrir oss leiðinleg; allt vort líf er ekkert annað enn viðvarandi ástundan að spilla, já, að eyða tímanum. Pénustusemi vora auðsýnum vér vinum vorum, velgjörnínga þeim, sem vér elskum, en tímann gefum vér burt rétt hverjum, sem hafa vill. Svona athugalauslega, svona hirðulauslega, já, svona dárlega förum vér með þá dýrmætustu gáfu, sem guð hefur oss veitt. En eigum vér þá sífeldt þurfa að gjöra þessa umkvörtun yfir sjálfum oss? skulum vér enn þá lifa leingi án þess að vita, hvers vegna vér lifum? eigum vér enn þá framvegis til einkis að eyða tíðinni, um hverrar miklu nytsemi vér þó erum svo sannfróðir? á nú ekki þessi stund enn þá að

vekja hjá oss betri þánka? ó gud! þin nád vardveiti oss frá þeirri ólukku, sem verda má uppspretta og orsøk til vorrar eilifu óhamingju! vér meigum loksins birja ad reikna þá tid, sem vér þegar høfum útsóad og hugleida þá daga, sem enn eru fyrir høndum. Hvert, sem tala vorra komandi lifdaga er stór edur smá, erum vér þó i hverjutveggja tilliti ólukkulegir, ef vér brúkum þá illa; ef vér lifum enn þá leingi hér eptir og eydum timunum syndsamlega, aukum vér þar med vora fordæmingu; eigum vér ekki eptir nema skammt ólifad, kunnum vér voveiflega og varbúnir ad framleidast fyrir þann dómstól, hvar vér standa eigum reikningsskap fyrir þad, hvernig vér brúkad høfum timann og vort lif. O! eilifi gud! gef þú oss visdóm til ad efla vora sáluhjálp, og kenn oss ad brúka alla vora daga, tima og augnablik til þessa mesta áridanda augnamids.

## 21. Hugvekja.

Væntú æ daudans, vinur kær! vonum framar hann stendur nær, vid hvern dag þeinki hugurinn þinn: hann mun verda sidasti minn!

Ad morgni dags, þegar vér ljúkum fyrst upp augunum, eigum vér strax ad hugsa til þess tima, þegar þau munu seinast apturlykjast. Því

skyldi eg nú,— hugsar sá úngi — þar eg varla er enn þá kominn inn í heiminn, hriggja sjálfan mig med endurminningu þess tíma, á hverjum eg aptur á heiminn ad yfirgefa? þó þegar eg yfirvega hversu voveiflega hann kann ad yfirfalla mig, er ekki annad mögulegt, enn ad sameina daudans umhugsun med lífsins. Ekki þarf meira enn þad eina tilfelli, sem allbúid vera kann mér, nefnilega: ad minn vidskilnadar tími kunni hastarlega ad yfirfalla mig, til þess ad minna mig sífellt á minn daudadag. Og þared eg ekkert augnablik er fyrir daudanum óhultur, kann eg heldur ekkert augnablik af ad lifa án þess ad óttast hann og ætti því ad búast undir hann. Fyrst ekkert eitt augnablik lídur hjá, á hverju daudinn ekki útleidi í hópatali oss daudlega menn frá þessu lífi, hversu margir mættu þeir þá ekki vera, sem á þessu kvöldi kvedja heiminn í seinasta sinni og gjöra á þessu kvöldi sína seinustu andláts bæn. Þad er því víst: ad í hverju ásigkomulagi, sem eg er staddur, er ekkert þad augnablik til, sem ekki kunni ad verda mitt seinasta; ekkert þad fyritæki í lífinu á hverju óhætt sé ad gröfin ekki gjöri enda; eingin sú hátíd, sem máske endist med líksaungum; eingin sú fæda, sem ekki geti ordid ad banvænu eitri; einginn sá svefnhöfgi, sem ekki verda megi minn seinasti dúr;

einginn sá morgun, sem ekki kunni ad afhenda mig í daudans skaut; einginn sá sjúkdómur, sem ekki geti ordid mitt bana mein. Med hverju skal afsaka þá fávísu gleymsku og afskiptaleysi, sem menn lifa í, í tilliti til ens sídasta dags og burtferdar tíma? en eru þau ekki þad, sem menn ættu ad bera hvad mesta umsorgun fyrir, af því þau eru háskasamastur tími þess mannlega lífs, edur máske madur treysti uppá heilbrigdi sína? en sú hrausta heilsa er lík neista, sem skyndilega má útslökkvast af minnsta vindblæ; máske einhver reidi sig uppá þenna tíma, á hverjum ekki finnst til nokkurs meins edur kránkleika; en hversu mørg þúsund manneskjur lifa ekki á þessu augnabliki ásamt oss, sem ekki fá næstu morgunsól ad sjá! þad er því í øllu tilliti umvardandi naudsynja efni fyrir oss, sífelt ad hafa daudann fyrir augunum, og med guds nádar adstod ad keppast eptir því ásigkomulagi, sem vér óskudum oss ad vera í, þegar vér eigum ad deya. O! ad þvílíkar daudans hugleidingar væru sífelt vakandi í minni sálu! ó! ad eg þar vid uppvekjast mætti til guds ótta og mannelsku, og þar af huggun ødlast í øllum lífsins mótlætingum! ó! ad svo mørg dauda dæmi, sem eg sje og jafnadarlega heyri, mættu leida mig til þess náttúrlegasta af øllum þaunkum: ad eg sé dupt og

aska, allt eins og allir minir burtsofnudu brædur! ó! ad eg yrdi svo vitur, ad eg nákvæmlega yfirvegadi hvad vid muni taka fyrir mér, þegar daudann skyndilega og mér óvørum ad bæri. Því vitrari, sem eg um þetta verd, því lukkusælli verda minir lífdagar og því rólegri min æfilok.

## 22. Hugvekja.

Hvad hefur þú, madur! þad þú hefur ekki þegid? en fyrst þú hefur þad þegid, því hrósar þú þér þá, eins og þú hefdir þad ekki þegid? 1 Cor. 4.

Þareð sérhver dagur leidir þig inn í nýjan reynslu- og freistinga-skóla, hlýd þú þá, sála min! þeim vísa lærdómi, sem lofa má þér farsælum enda á þínum freistingum og einkanlega sinnis þíns rósemi í øllum þjáningum. Hugleid þá fyrst: ad gud er þér um ekkert skyldugur og ad þú, eptir þinni eigin verdskuldun, ekki kannt annars ad vænta, enn óánægju, skorts og vesældar. Taktú þar fyrir þessu med rósemd, svo sem því eina, er þú átt skilid, en álittu þad góda, sem þú nýtur, ekki ødruvísi enn yfirgnæfanlega nádargáfu; minnstu þess: ad gott og illt, gledi og sorg, hlýtur eptir guds vísdómsfullu nidurrødun, opt hvert ødru sameinad vera. Verdú þína lukkulegu daga saman vid þá ólukkulegu

og þá muntu fá það reynt, að þeir síðari eru færri hinum lukkusælu. Reiknaðu frá alla þá mótföllnu daga, eins og þeir aldrei hefðu til verið, og reiknaðu þar á móti komandi dagana móti svo mörgum góðum, sem þú notið hefur. Settú þér áður fyrir sjónir margvísleg mæðu tilfelli, sem þér máske kynnu að höndum bera, og búðu þig út á móti þeim með von og þolinmæði, en gleymdu heldur ekki þeim glöðu augnablikum, sem þú í framtíðinni mátt vænta þér af mildum guði; yfirvegaðu ætíð, að þitt ástand, hversu aumt, sem það er, getur þó orðið aumara. Líktu kjörum þínum saman við svo margra þinna meðbræðra, og þá muntu sjá, að þitt ástand er í mörgu miklu betra enn þeirra; hugleiddu það vonda og góða, sem mætir þér, og aðgættu vel, að alls ekki veitst hvað af því í raun og veru verða kann þér til skaða, því jafnvel það, sem þér kann að virðast skaðlegt, getur orðið þér fyrir beztu. Láttu þér loksins til hugar koma þinn dauða, sem gjöra mun æskilegan enda á öllum þínum þreyngingum, og kóróna þitt stöðuglyndi, með óendaulegri farsæld. Þessar hugleiðingar skulu með guðs hjálp, meir og meir upphvetja þig til þolinmæði og leiða þig í það ástand, að þú getir ánægður verið með öll þau tilfelli, sem þinn himneski faðir lætur þér að

høndum bera, en þolinmædin mun ekki einúngis hjálpa þér til ad lifa i vinfeingi og ró vid alla menn og til ad yfirvega og framkvæma allt hvad þú tekur þér fyrir hendur, med tilhlýdilegri umhyggju og ánægju, heldur mun hún og gjøra jafnvel þau sorglegustu tilfelli þér léttbær eda ad minnsta kosti þolanleg. Ottastu því ekki nokkra adra ólukku enn þá stórkostlegu og sannkølludu, nefnilega: þins skapara og velgjørara ónád, en kostadu ætid kapps um svo ad lifa, ad þú æ viss verdir um hans miskun og nád; hvad mun þá annad geta ollad þér órósemi! hvad hriggt edur þjád þig? þær megnustu pinur eru ekkert, því þær leida þig enn nær þeirri ánægju, sem innifalin er i vidvarandi og óútmálanlegri sinnis rósemi. Hvad er fátækt, nema ekkert, þegar þú yfirvegar þann rikdóm, sem gud hefur geymt þér i því komanda lifi? hvad er heimsins vanvirda, nema ekkert, þegar þú yfirvegar þá æru og velþókknun, sem þú ødlast hjá gudi? hvad er lifid sjálft, nema ekkert, þegar þú jafnar því saman vid þad sælufulla lif, sem þú átt i vændum á himnum? já, daudinn sjálfur er ekkert, þegar þú ert viss um þad, ad hann er byrjan til óendanlegs og betra lifs.

# 23. Hugvekja.

En — vor borgar réttur er á himnum; hvadan vér væntum frelsarans drottins vors Jesú Krists; sem mun ummynda þann líkama, sem vér í þessari vorri lægíngu berum; ad hann líkur verdi þeim líkhama, hann í dýrd sinni hefur. Fil. 3.

Á hverjum degi mætti þad vera fyrir vorum hugskots sjónum, hversu vor náttúra er veik og vor líkhami vanfær. Ekki er annars ad vænta, enn ad vér á stundum hriggjumst af því, þar ed vér meigum álita þenna vorn náttúru veikleika, sem helztu orsök vorra bágbornu lífsstunda. Vor andi býr í þvílíkum líkhama, sem nær því daglega minnir oss á, ad hann sé ekki annad enn hrørlegt hreysi, sem í dag fá kunni áfall, en á morgun vera fallinn, ellegar um hvert óttast meigi, ad þetta hreysi, undir eins og áfallid til ber, hrynji í grunn nidur. Svo opt vér endurnærum oss med mat og drykki, svo opt, sem vér máttlausir óskum oss nædis, svo opt, sem vér finnum til nokkurs meins edur þjáníngar, svo opt fáum vér nýa advørun þar um, ad vér skulum gjøra oss reidubúna til ad yfirgefa þetta líf. Daudans fyriboda finnum vér hjá sjálfum oss, stundum meiri og stundum minni, en þannig finnum vér hann þó, ad vér missum þar vid, um mikinn hluta æfi vorrar, rósemi vora og

gledi. Sálin finnur daglega til óþægilegleika síns samastadar, og ófullkomlegleika sinna krapta, og þar af rísa svo óteljanlegar sorgir, áhyggja og órósemi. O! hversu aumkunarverdar skepnur værum vér ekki, ef vér ekkert hefdum ad hugga oss vid, á móti þessum sorglegu hlutum, ekkert sem gæti gjört oss rólega! vér hefdum þá eins fullt efni til ad taka komu sérhvers dags med tárum og sorg, en særast af sømu rósemi yfir vorra lífs stunda varanlegleika, sem vér nú særumst af því, hversu skammvinnt þad er. En vort ásigkomulag er farsællra, þar ed vér í guds ótta finnum máttuga huggun á móti allskyns veikleika, og trúfastan leidtoga í vorum útlendingskap. Þetta gjørir oss þá ørugga og óhrædda í øllum þeim tilfellum, sem boda oss daudann fyrifram, þared vor guds ótti gefur oss vissa von um annad fullkomnara og betra fødurland. Þessi guds ótti styrkir oss til ad bera med þolinmædi allar mótlætingar, um hverjar máske allmargar sjálfum oss kann og vera ad kenna, því hann fullvissar oss um vors guds fødur kærleika og máttugu hjálp. Þessi guds ótti hughreystir oss med sáluhjálplegri von um endurnýad og dýrdlegt ástand, sem vér væntum oss eptir þetta líf. Þegar þær sáru tilfinningar, sem vors veika líkhama ásigkomulag ollir oss, orsaka

órósemi, og oss virdist allt hid jardneska næsta hriggilegt, høfum vér annad þessu til léttirs í huga vorum, sem reiknast má miklu gledilegra. Vér sjáum í huganum óforgeingilegann líkhama, sem vér munum umskipta fyrir þetta hrørlega veika hreysi, eilíft líf í stad þessa skammvinna, og sáluhjálplega upprisu eptir þenna tímanlega dauda; ad þessi umskipti séu oss fyrirbúin, þurfum vér ekki ad leida í getgátu nokkra, ekki ad vænta eda óska oss þeirra med nokkurri efasemd; nei, nei, vér meigum álíta þau, jafnvel í þessu lífi, eins og nálæg, og hvad meira er, vér kunnum nú þegar fyrifram ad smakka og finna þá ánægju hér í lífi, sem fullvissan um ædri farsæld gefur øllum trúudum. Hversu mikillega gjørir þá ekki guds óttinn líf vort yndislegt og rósamt? sleppum því allri kvørtun yfir vors lífs mædu og eymdum, en látum þad miklu framar vera vora daglegu umhyggju, hvernig vér lifad fáum gudrækilega, svo vér lifa mættum ánægdir og lukkulegir. O gud! virdstu ad tilreida oss þar til med þínum góda anda og uppfylla þessa vora hjartans ósk! æ! bænheyrdu þad nádarsamlega, þú, sem aldrei fyrilítur hreinskilnar bænir réttlátra. Amen!

## 24. Hugvekja.

Kenn mér fánýtum glansa gleyma, og gull-eign jarðar, metnað', lyst, af munni hjartans ósk lát streyma: ó guð þitt ríki komi víst! undir eins og eg ávinn það, auðnast mér líka gott sérhvað.

Á þessari kvöldstundu óskum vér oss efalaust rólegra, ánægðra og lukkulegra daga; og mörg þúsund vorra meðbræðra sameina sínar óskir með oss um þetta sama. En — munu þó góðu dagarnir, er vér svo nefnum og svo ákaft óskum oss, í raun réttri vera svo nytsamlegir fyrir oss, sem vér hugsum? mun oss það svo heilsusamlegt, sem vér álítum, að vera öldúngis fríir fyrir öllum liðunum og mótlætingum, en njóta allskonar heimsgæða, æru og fagnaðar? hvers er allt þetta vert, þegar vér þó ekki undir eins höfum ánægt sinni? hvernig færi, ef öll þessi heimsgæði snéru voru sinni frá guðs náð og vingun, og vörpuðu oss enn dýpra í þá fordjörfun, sem skilníngarvitin svo optlega ginna og leiða oss í? og hvernig færi, ef þau upprættu alla laungun úr hjartanu til vorrar sáluhjálpar andlegu gæða, alla tilfinningu af kærleika guðs, en uppfylltu vora sálu þar á mót með þvílíkum girndum, sem ræna mættu oss grundvallaðri von um fullsælu í eilífu lífi? hvernig færi, ef þessir góðu dagar gjörðu vort hjarta drambsamt, fylltu það

med miskunarleysi, ágirni og vellyst? þó fer þetta alloptast þannig og jardnesk gledi er æ hættuleg voru hjarta og vorri sáluhjálp; því lukkulegri, sem vér erum i útvortis kringumstædum, því fleiri freistingum, því stærri hættu erum vér undirorpnir; ekkert nema eitt fær hrifid oss út af þessari háskasemd, sem æ fylgir gódu dögunum; ekki nema eitt er þad til, sem fær varnad, ad vér verdum hverki módlausir i mótgángi, né ólukkulegir i medlæti, og þetta dýrmæta medal er sannur guds ótti; vid þetta medal verda bædi vorir gódu og vondu dagar oss nytsamlegir, og þessa gáfu, þinn sáluhjálplega ótta, bidjum vér þig, miskunsami nádugi gud! ad kveikja og vidhalda i oss, þá erum vér fullvissir um, ad allir hlutir verda oss ad gódu. Gef ad þinn ótti sé æ lifandi og stadfastur i vorri sálu, svo ad hún jafnan hlýdi þér, en ekki syndsamlegum girndum! kenndú oss ad meta sérhvern hlut, sem oss er þægur og kær, eptir maklegleikum, og láttu oss aldrei breyta svo óforsjállega, ad vér skiptum vorrar sálar velferd fyrir ríkdóm, virdingar eda vellyst; láttu skodun og umþeinkingu þess ósýnilega og eilífa, svipta oss ofmiklu dálæti á þessu sýnilega og skammvinna jardneska; láttu þær freistingar, sem gódu dagarnir olla i þessum heimi, aldrei leida oss afvega, aldrei spilla vorri

eilífu farsæld til ad ødlast jardneska, fallvalta lukku. Láttu þinn ótta afla oss blessunar og gledi í vorum heilbrigdu og vanheilu døgum, í gledi og sorgar døgum, i lífi og dauda; vér viljum einkis óska oss sérílagi, en virdstu af nád ad gefa oss þad, er oss má fyri beztu verda. Med þakklæti viljum vér þyggja allt, sem þín milda fødurhønd, útbýtir oss. Audnist oss ad eins ad vardveita þinn ótta og þína elsku i vorum hjørtum, meigum vér alls annars án vera.

## 25. Hugvekja.

Pared vér erum réttlátir fyrir trúna þá høfum vér frid vid gud, fyrir vorn drottinn Jesúm Krist. Róm. 5.

Um hvad ættum vér optar ad þeinkja, enn um Jesú Krists kærleika, af hverjum vér høfum ad vænta oss allrar sáluhjálpar? til hvers skyldum vér optar hugsa enn til þeirrar ævarandi sáluhjálpar, sem nád vors guds lætur oss vona? hvad fær fyrir oss meir áridandi verid, enn ad vita oss gefna sálu, ekki ad eins ódaudlega, heldur og þá, sem eptir þetta líf skal eilíflega sameinast gudi og njóta eilífrar farsældar hjá honum? hvad getur framar hrært vort hjarta, enn yfirvegun þessarar farsældar, hennar mikla unadsemd og ypparlegleika? samlíkjum henni vid þad,

sem hér á jørdunni kallast lukka og adgætum hversu mikla yfirburdi þessi eilífa farsæld hefur. Hvad fær framar haldid vorum girndum og tilhneigíngum í taumi enn þegar vér látum oss einúngis lánga eptir þessari óvidjafnanlegu lukku og stundum af fremstu kroptum ad ødlast þessa sáluhjálp? getum vér nákvæmlega þeinkt um allt þetta, án þess ad upptendrast af elsku og þakklátsemi til hans, sem er høfundur þessara gæda, þessarar sáluhjálpar? ónei! þá fyrst fáum vér fullkomlega fundid þad, hversu mikid lof og þakklæti gudi, vors Jesú Krists fødur, ber, sem hefur blessad oss med allsháttar andlegri blessun þeirra himnesku gæda fyrir Krist. Þá fyrst verdur vort hjarta réttilega hrært af Jesú Krists óumrædilega kærleika, sem hefur med svo dýru verdi, hverki med gulli né silfri, heldur med sínu heilaga, dýrmæta og saklausa blódi, keypt og afrekad oss umskipti á daudanum og fordæmíngunni, fyrir lífid og sáluhjálpina, sem hann oss útvegadi; þá munum vér og fá þakklátt og hlýdid hjarta, fyrir guds anda nádarsamlegu tilhlutun, sem hér vill tilreida oss med sínum guddómlega krapti og nád, og gjøra hæfilega til ad njóta þess eilífa lífsins. Þetta er mjøg svo árídandi og naudsynleg æfing fyrir sérhvern kristinn, til ad komast í nákvæmari sameiníngu vid gud, sem

svo nádarsamlega kallar hann til sín og sinnar sameiningar. Þetta er sú sáluhjálplegasta ydja, fyrir hverja vér ætíd meir og meir kunnum ad sameinast vorum frelsara, vegna hvers kærleika vér verda munum eiliflega sælir. Þetta er vor sanna lukka, ad vér ætíd látum oss stjórna af guds anda, sem æ leidir oss til guds og hans nákvæmu sáluhjálplegu umgeingni, og kennir oss æ meir og framar ad meta þá sáluhjálp, sem Jesú Krists kærleiki og nád vors himneska födurs lofar oss ad vænta. O! þú sannleiksins andi! gef þú oss nád til ad halda vorum þaunkum sífelt stadfostum vid þessa háleitu hluti. Gjör þú vora sálu æ meir og framar vidskila vid syndsamlegra girnda bönd og tálsnörur, sem hingad til hafa svo leingi hamlad hennar framför til farsældar og kenn oss æ betur og betur ad þekkja, hvad til vors fridar heyrir. Lát ekkert vera oss meir áridandi, enn ad sameinast gudi og eiliflega njóta hans nádar. Eins og vér nú í þetta sinn umgaungumst gud, svo lát einnig vort hjarta framvegis honum helgad vera, hugsa til hans, óttast og elska hann umfram alla hluti; þá erum vér vissir um þá farsæld, sem eiliflega mun gledja oss hjá vorum frelsara í dýrdinni. Amen!

# 26. Hugvekja.

Vid réttlátra mun ad fögnudi verda, en von ómildra fyrirferst. Ordskvb. 10.

Þessi dagur, sem nád míns guds lét mig af-lifa er nýtt stig framm ad þeirri endalausu ei-lífd. Sú óútmálanlega farsæld, sem hann enn framar hefur ákvardad mér, uppfyllir mína sálu med brennandi laungun eptir ad verda hennar hluttakandi. Hversu opt finnst mér ekki tíminn lángur? hversu opt hvarflar mér nú í hug ó-þolinmód laungun, af því eg enn þá ekki fæ ad njóta þessarar farsældar. Enn þá hughreystir mig, enn þá upplífgar mig sá þánki, ad eg ætíd meir og meir nálægist mitt mikla farsældar tak-mark. Ekki renni eg þánka til daga eda ára, sem eg lifad hefi, heldur tel eg tímana og augna-blikin, sem eptir eru og enn hamla mér fullkom-lega ad geta nálgast minn Jesúm; en — hversu gledur mitt hjarta sig, ad tala þeirra fer ódum minkandi. Á morgun verd eg fluttur enn þá nær mínu vonar takmarki, já, vid hvert augna-blik styttist meir og meir þessi fjarlægd, þángad til loksins þann tímans púnkt ad ber, ad mér audnast ad vera eilíflega farsæll. Því skelfist þú þá, sála mín! er þú minnist bágbornu tímanna, sem enn þá máske bída þín? hversu fljótt munu þeir ekki framhjá lída? hversu þæg mun ekki þeirra

endalykt, og hversu inndæl verdur ekki þeirra umbun? hreßstú þig upp til ad bera þá med stödduglyndi; allir mida þeir til þess, ad láta mig á stundum smán og ofsókn lida fyrir síns nafns sakir! mín sála prísar hann, sem gefid hefur mér örugga von um allt hvad eptir kemur, þá miklu og gladværu von, sem eingu mótlæti kvida þarf í þeirri komandi eilífd. Láttu nú og, líknarfulli gud! þá miklu skyldu, sem mér framvegis ber ad vardveita, vera mér sífelt fyrir sjónum: lát mig aldrei festa þann kærleika vid heiminn, eda nokkurn hlut í heiminum, ad eg þess vegna gleymi þeim gædum, sem mér eru geymd í komandi eilífd; gjör þú mig viljugan og hæfilegan til ad afneita minni eigin gagnsemi, minni rósemi og hægdum, minni ánægju og drambsemi, þegar gylda skal ad sýna hugprýdi og náúngans kærleika, og æfa sannköllud góðverk til þinnar þjónustu. Þurfi minn bródir hjálpar vid, verd eg ad flýta mér til hans, til þess ad hjálpa honum og álita mig lukkulegan, fái eg þess orkad; þó óvinur minn hafi afbrotid á móti mér, og jafnvel illt í sinni gegn mér, gef mér samt, ó gud! nád til ad fyrirgefa honum af hjarta og med nýum velgjörningum ad sannfæra hann um, ad einginn, nema sá réttkristni, er svo hugprúdur, ad hann umbuni illt med gódu; gef mér í

øllum athøfnum ad audsýna mig gódan, kristinn mann, og lát mig í medlæti eins og í mótlæti, í dauda sem lífi, sanna, ad eg kappkosti ad vera míns Jesú trúr eptirfylgjari og barn míns fødurs, sem á himnum er. Lát enn framar sannast á mér: ad sønn trú og gudhrædsla øllu fremur gjøri sína elskendur verdugar, gódar og farsælar manneskjur!

## 27. Hugvekja.

Varpadu þinni áhyggju uppá drottinn, og hann mun forsorga þig, hann mun ekki leyfa, ad sá réttláti æfinlega liggi fallinn. Sálm. 55.

Dagurinn, sem vér lifad høfum í dag, er ný sannfæring þess: ad gud, minn gædskuríki fadir, enn þá elskar mig og virdir sínnar kærlegu og nádugu endurminníngar. Þá eg renni þaunkunum aptur til þess umlídna, hvílíkra undrunarverka hans kærleika, og vidkvæmu fødurlegu umhyggju, verd eg þá ekki hvervetna var? hann ól ønn fyrir mér, ádur enn eg vard til, og hefur sífelt borid umhyggju fyrir minni velgeíngni frá byrjun míns lífs til þessa augnabliks. Óteljanlegir eru hans velgjørníngar, og óumrædilegur hans kærleiki til mannanna barna. Hversu mætti nú ekki mitt hjarta hrærast vid þannig ad hugsa til baka og yfirvega umlídnu tímana? hvílík upp-

ørfan fyrir mig, til ad vona, elska og þolinmóð-
lega líða? þú, ó guð! sem mér gjørt hefur svo
mikið gott híngað til, þú munt síst yfirgefa mig
héðanaf, og það er min ørugga trú. Eg, sem
í svo lánga tíma hefi verið forsorgaður af þér
með øllu góðu, mun síst mæðusama áhyggju bera
fyrir deginum, sem kemur á morgun. Þú hefur
híngað til hjálpað mér í gegnum svo margar
þreyngíngar, því mun eg ókvíðinn framvegis
reiða mig uppá þína hjálp; þú hefur sannfært
mig svo opt um það, að øll mín tilfelli og allt
hvað mér mætir, kemur einúngis frá þér og
stjórnast af þinni hønd, eptir óendanlegum vis-
dómi þínum og gæðsku, mér til bezta; skyldi eg
þá vera óánægður með hvað þú úthlutar mér?
skyldi eg møgla á móti þér? eg hefi svo opt sjeð,
að lýgi og fals hafa til skammar orðið, og að
einúngis dygð og frómleiki fá staðist til enda,
skyldi eg þá ekki hata bakmælgi, en elska
hreinskilni? þú hefur alltaf elskað mig svo ástúð-
lega, skyldi eg þá ekki elska þig aptur? þú hefur
gefið mér lífið og allt hvað eg hefi, skyldi eg þá
ekki vera reiðubúinn og viljugur til að yfirgefa
alla hluti fyrir þínar sakir? þú hefur sýnt þig
svo ástúðlegan við mig, skyldi eg þá vera harð-
geðja við bræður mína? þú hefur fyrirgefið mér
svo margfaldar og miklar syndir, skyldi eg þá ekki

af hjarta fyrirgefa minum óvinum? ó guð! þú, sem ert svo ríkur af náð og mikill af miskun, þú, sem hefur útausið yfir mig svo mörgum velgjörningum, þó eg sé óverðugur að njóta þinnar minnstu náðar, þar eg á eingan hátt get þá aptur endurgoldið. O! láttu mig þó að minnsta kosti ekki vera óþakklátan fyrir þá, svo eg eflaust megi gjöra mér þá óhultu von, að þú á tilkomandi tímanum viljir minnast mín, viljir vera minn hjálpari og verndari; þá munu þær skyldur verða mér bæði þægar og léttar, sem mér nú finnast örðugar og ógeðfeldar. Þegar eg einúngis hefi þakklátt og hlýðið hjarta til að bera, er það, hér í tímanum að álíta, sem inngánginn til þess gleði- og lofgjörðar-saungs, sem eg á síðan í eilífðinni mun færa þér, fyrir alla þá náð og ómetanlegu velgjörninga, sem þú frá barnsbeini og um alla mína æfi hefur mér svo föðurlega auðsýnt.

## 28. Hugvekja.

Þó sorg og ánauð sífeldlig, samferðist lífsins dögum, eg glaður er, því, guð! veit þig glöggt sjá hvað minum högum er fyrir bestu, mæðu með mitt þú reynir og venur geð, í þínum að þreya' álögum.

Þó sorgin særi og mótlætið mæði mig, vil eg þó vel ánægður vera, geti eg þókknast mínum

gudi. Eg veit, þetta líf muni þó enda taka, og ad eg næ farsæld hjá gudi þegar lífid þrýtur. Hvad hefur ekki gud fyrir mig gjørt, til þess ad lada mig til sín? hversu tídum hefur hann ekki bodid mér til sín aptur ad snúa frá syndunum? hversu mørgum hindrunum hefur hann ekki burtu velt, til ad gjøra þann veg færan, á hverjum hann vildi mig framleida? allar þær nádarverkanir, sem hans andi framkvæmt hefur í minni sálu alla mína æfi, frá því eg sá fyrst heimsins ljós, vóru ekki annad enn uppvakníngar, sem vegleida máttu mig enn nær gudi. Sá guddómlegi vísdómur lét øll þau tilfelli, sem vid mig framkomu, studla til þess, ad eg leiddur yrdi æ leingra fram á veginn til hans sameiníngar; en máske eg ekki til hálfs þekki þenna guds velgjørníng, þar eg ekki ad fullu skynja kann ákvardanir og tilgáng guds forsjónar, sem svo nádarsamlega vakir yfir mér. En ef ad gud opnadi mín augu, þá mundi eg verda þess var, ad øll mín lífs tilfelli stefna til sannrar lukku sálar minnar; eg mundi þá læra ad þekkja, ad jafnvel sá mótgángur, sem mér ad høndum ber, er ekkert annad enn nádar-rík rádstafan míns guds, svo eg enn framar sameinist honum; eg mundi þá verda þess var, ad margir tilburdir, sem eg álít ad vera léttvæg tilfelli og hendíngar,

eru þau medøl, sem guds náð brúkar til að gjøra enn greiðari veg til betrunar míns hjarta; eg mundi þá sjá, að mín fæðing, lukka og eignir, mínar náttúrugáfur og allt mitt ástand, eru kröptug medøl til að leiðbeina sálu minni á guðs veg; eg mundi þekkja, að guð, á sérhverju augnabliki míns lífs auðsýnir mér ný og ný merki hans miskunar. Stundum burthratt hann einhverri hindrun minnar sáluhjálpar með nokkrum missir, stundum dempaði hann mínar tilhneigíngar með einhverju þægilegu tilfelli; stundum gaf hann mér, með einhverju góðu dæmi, tækifæri til alvarlegra hugleiðinga, stundum uppvakti hann mína sofandi samvitsku með einhvers meðbróðurs hastarlegum viðskilnaði, í einu orði: guð hefur allt við mig gjört, og gjørir enn nú, til þess að draga mig frá heiminum til sáluhjálplegrar sameiningar við sig. En, hefur þá sá miskunsami guð feingið það hjá mér framkvæmt, sem hans náðarfulli tilgángur miðaði til? hefi eg nokkuð skipast látið við bendingar hans? er eg daglega nær honum kominn? ó guð! hvað fæ eg dulið fyrir þér? þú þekkir mína fásinnu og mótþróa. Þú veitst hversu eg mótstaðið hefi þíns anda verkunum. Hver dagur var hingað til ný ydrunar upphvatning fyrir mig, og þó brúkaði eg hann eins og hann verið hefði ein-

ber upphvatning til lasta. O guð! gakk ekki í dóm við mig, og kref mig ekki til reiknings fyrir þína meðteknu velgjørninga og náðar verkanir, sem eg hefi misbrúkað; haltú áfram að uppvekja, hræra og sannfæra mig með þínum anda; lát mig sífelt sjá og viðurkenna, hversu føðurlega þú jafnán laðar mig til apturhvarfs til þín, og gef að eg verða mætti æ fúsari og fúsari þar til, þér æ hlýðnari enn eg hingað til verið hefi, og ekki leingur ónýta og forsmá þína náð við mig, með tilfinningarleysi og þverúð. Leið mig á þínum vegum, og varna mér frá því nokkurntíma héðanaf, að víkja af þeim, svo eg að lokunum øðlast meigi það eilífa og sælufulla líf, til hvers þinn kærleiki í Jesú Kristi hefur mig ákvarðað. Amen!

## 29. Hugvekja.

Lífið er stutt, kenn minn guð! mér mínum svo verja døgum hér, að tækifæri aldrei neitt, iðju skyldunnar frá sé sneydt: tíð sú eittsinn mér fór burt frá, fást síðan ei til baka má.

Tíminn er stuttur, og því fæ eg aldrei nógu vel íhugað og gætt að færa mér hann í nyt. Ætti eg enn fyri høndum að lifa í hundrað ára øld, þá væru kannske þeir illa brúkuðu dagar og augnablik ekki nema lítilsvirði, sem mér bráð-

lega bættist, en nú eru minir dagar og ár á-kvørdud svo fá, ad alls ekkert af þeim missast má. Dragi eg frá øllum minum aldri þann tima, sem eg verd ad brúka til umhyggju fyrir likhamanum og minni velgeingni, hvad verdur þá eptir af allri æfinni, sem gudi og eilifdinni sé varid? og þó lætst eg ekki vita til hvers eg brúka skuli þad litid, sem afgángs er; já, eg leita mér þúsund bragda, til ad stytta mér þessa tid. Æ! mig aumkunarverdan! því hefi eg ekki hugleidt, ad tiu lif eins laung og mitt, fái ekki bætt mér aptur hinn minnsta part af þeim tima, hvern eg vanbrúkad hefi. Hvernig get eg þá i svo stuttu lifi feingid nokkurn tima afgángs til lyst-inga og ónytsamlegra hluta? mun nokkur saka-madur, sem var til dauda dæmdur og átti ein-úngis einn dag eptir ólifadan, á hverjum hann gæti nádar leitad, mundi hann hafa nokkurn tima afgángs, sem hann eyda meigi til ónytis? ó! hversu fásinna eg er! dómurinn er þegar fallinn um mig, eg á einúngis eins dags frest eptir, og þessi dagur er mér til leidinda? eg eydi hon-um i þvilíku þánkaleysi, med gjálifi, barndómleg-um og ónytsamlegum athøfnum, og leitast hvad mest eg get vid ad stytta hann; eg sje kvøldid koma, án þess ad hafa brúkad þann dag, sem gud hefur gefid mér, ødruvisi enn svo, ad eg

vann til enn þýngri hegníngar. Hvernig fæ eg sagt, ad eg hafi haft afgángs tíma þenna dag? ó! hversu tídin er stutt og mínar skyldur óteljanlegar, og þó fann eg enn þá svo margar tómstundir á hverjum degi, á hverjum eg ekkert tók mér fyrir ad ydja: enn þá lét eg lystíngar stytta mér tídina. Voldugi gud! þú, sem einn úthlutar tímum og augnablikum, hvernig mun þér gedjast ad sjá mig þannig eyda minni tíd, sem er svo stutt og þó svo mikilsverd? æ! eg skelf og titra! sá mesti og bezti partur míns lífs er þegar lidinn og tapadur, skal eg enn þá ætla mér, ad eyda eins ónytsamlega því, sem eptir er daganna? skal ekkert alvarlegt augnablik vera til í mínu lífi, nema þad seinasta, sem endar þad? ó gud! vardveittu mig frá þeirri óútmálanlega miklu ólukku; helga þú sjálfur þau fáu augnablik, sem eg enn þá lifa skal í þessum heimi, og gef mér nád til ad brúka þau mér til sáluhjálpar. Þessi dagur flytur mig nær grøfinni, ó! hvad vildi eg gjøra, ef eg vissi mig eiga einúngis eitt stig ófarid eptir af minni vegferdar-reisu ad grøfinni? lát sífelt vaka í huga mínum þetta íhugaverda: hvad ef mér yrdi nú í burtu svipt, hver mundu þá mín kjør vera? eilífi gud! miskuna þig yfir mig og gef þú mér þann vísdóm, forsjállega ad endurkaupa hvert forsómad augna-

blik, þar ed min eilífu forløg eru þar undir komin.

## 30. Hugvekja.

Þitt orð er vor hjartans gleði og huggan. Jer. 15.

Þegar eg elska guð og Jesúm Krist, get eg í øllum lífs tilfellum hughraustur verið. Hvert, sem eg lít til þess umliðna, þess nærveranda ellegar hins ókomna, styrkist eg í þeim ásetningi, að vera hjá mínum endurlausnara, að hverjum einum eg vil mér halda. Eg finn að sønnu, þá eg aðgæti mitt umliðna líf, að eg einnig varið hafi æfi minni í heimsins gjálífi og til heimsins lystinga; en, hvílíka huggun finn eg þar hjá mitt í þessari sorglegu endurminningu! eg get ekki hugsað til þeirra umliðnu tímanna, án þess undir eins að þakka og þekkja alla þá vegu, um hverja guðs miskunsemi hefur mig framleiðt. Allstaðar þekki eg þá náðugu forsjón, sem guð hefur fyrir mér borið, jafnvel og þá, er eg enn gekk á vondum villustigum. Eg kannast við þær heimuglegu aðvaranir, með hverjum hann tíðum kallaði mig til að gæta skyldu minnar, og með hvílíkri gleði og huggun má þá ekki mín sál uppfyllast? ó guð! hversu endalaus er þín miskunsemi! má eg með spámanninum undirtaka; þegar eg er Jesú, fyri trúna, sameinaður, liggur

mér í léttu rúmi hvad, sem adkemur og ágeingur í þessu lífi. Heimsins óstødugleiki, ránglæti og álas, sem er svo sorglegt þeim, er elska hann þénar meir til þess, ad eg læri því betur ad þekkja, hversu farsæll eg er, sem útvalid hefi mér annan herra enn heiminn; en þó huggast eg enn þá meir vid umþeinkingu þess, sem eptirkomandi er. Eg bid þeirrar sælu vonar og þess lukkulega augnabliks, þá eg inntakast mun í þeirra himnesku hersveita samfélag, aptur sameinast brædrum mínum, sem eg misst hefi á jordunni og ódaudlegum gudi sjálfum; eg kannast þá vid þad, ad þó eg hafni því, sem nærverandi er, tapa eg þó eingu, þared allt þetta jardneska mun eptir fá lidin augnablik horfid, og þær þreyngingar, sem eg hefi lidid, meiga ekki koma í nokkurn samjøfnud vid þá dýrd, sem mér er fyrirbúin í himninum. Eg veit og má sanna: ad nálægir hlutir hverfa í burtu skyndilega, eru ekki þess verdir ad nokkur telji þá, eptir ára eda jafnvel 100 ára tølu, þó svo leingi audnast mætti ad njóta þeirra. O! því hefi eg ekki fyrri látid mig leida af Jesú stjórnun, svo eg ødlast mætti þessa sælu? því hefi eg ekki leitad þessarar sameiningar vid minn endurlausnara til ad gjøra hid umlidna, nálæga og eptirkomanda mér audveldara? æ! flýttu þér, sála mín! vid enda þessa

verda þeirrar yfirgnæfandi farsældar, eins í sjálfum daudanum voga ad reida oss á vinfeingi guds. Hvilík blessan mun þad ekki fyrir oss, þá ad meiga deyja, sem guds vinir og sem hans óskaborn? þá mun óblønduð gledi fylgja vorri fullvissu um oss fyrirbúna inngaungu í annan æskilegri heim, hvar gud eilíflega vera mun vor vinur, og vér eilíflega verdum hans eign.

## 45. Hugvekja.

Herra! bænheyrdu mig á neydarinnar degi, nafnid guds Jakobs frelsi mig. S. 20.

Hver dagur hefur sína þjáningu, en sérhver dagur færir oss einnig sérlega velgjørninga; til ad sannfærast þar um þarftú, sála mín! einúngis ad samlíkja þinni daglegu eymd, vid þína daglegu lukku; hvad høfum vér daglega ad bera? vér finnum máske til ervidisins þúnga, máske fátæktarinnar ørdugleika, vér lídum máske baktal eda órétt af mønnum; máske vér finnum hversu þúngt veitir ad bera veikan líkhama; hversu þúngt ad sporna og sjá vid syndum, ellegar máske ønnur heimugleg eymd, huld sorg, neydi oss til ad kveina og andvarpa sárlega. Þó vér nú reyna mættum eitthvad af þvílíkum bágindum, þó oss mættu þau øll sérhvern dag, megum vér samt vidurkenna: ad sérhver dagur ber oss sína

blessun. Einn sólar geisli, sem vermir oss, einn drykkur sem svalar oss, einn braudbiti, sem seffar vort húngur, svefninn, sem endurnærir oss, vinurinn í hvers fadmi vér lifum ánægdir; allt þetta er oss blessun. Sérhvern dag umlídur oss guds þolinmædi; sérhvern dag verkar hans andi i vorum hjørtum; sérhvern dag meigum vér bidja vorn gud; þetta er vor daglega ánægja; en hversu mikla gledi gefur oss ekki hans margvísleg nádar rádstafan? gledilegar, gedþekkar fregnir, feinginn sigur yfir hjarta voru óvænt heppni og jafnvel þær heillir, sem vér ødlast meigum af sjálfu mótlætinu, ad verda audmjúkir, vitrir, þolinmódir vid reynsluna, er allt þetta til samans og hvad eitt sérilagi ekki sannarleg lukka? er þá sérhver dagar, sem vér lifum, ekki sannur velgjørníngur vid oss? vér segjum: vort líf er stutt, en einn dagur er þó styttri enn allt lifid, og ein þjáning opt styttri enn heill dagur, en guds nád varir eiliflega. O! ad vér mættum, vid þessar hugleidingar, venjast af ad kvarta um skør fram, þó eitthvert mótlæti oss ad hønd um beri, eda þó vér ekki alltaf bødum i rósum. O! ad vér vildum eins nákvæmlega telja fram guds velgjørninga vid oss, eins og vér gjørum oss ómak fyrir ad auka vora kvøl og margfalda vorar eigin mædur. Eingan dag

lifum vér þann, ad oss vanti tækifæri til ad íhuga gædsku vors himneska fødurs; séum vér ad eins eptirtektasamir um hans fødurlegu rádstafanir, munum vér á sérhverjum degi vors lifs, hversu mædusamur og mótlætingafullur, sem hann verda má, þó finna nóg efni til ad prísa og lofa hann; því ber oss ætíd ad vera ánægdum med hans stjórnum, og í øllum tilfellum halda oss fast vid hann í von og þolinmædi. O! min sál! haldtu þá hóf í øllum umkvørtunum; því hvad er þad, sem hriggir þig? máske jardnesk og fánýt gledi, sem sá alvísi hefur þig svipt? máske eitthvert óhappa tilfelli, sem gud baud verda þér ad enn meiri lukku? máske einhver hindran þinnar velgeingni, sem seinna má þéna þér til góds? því viltu þá kvarta og klaga? nei — vertú ætíd hughraust og vonadu á drottinn; gleymdu því aldrei hversu gott gud gjørir þér, jafnvel þá er hann þig typtar; yfirvegadu jafnan þína ákvørdun og tilgáng guds med því ad bæta þér vid í heiminum. Umbreytingar þins lifs eiga ad minna þig á heimsins fallvalta óstødugleika og himinsins óraskanlegu gledi. Senn mun eilifdarinnar dagur upprenna þér og þá mun eingin þjáning, ekkert andstreymi framar til vera, heldur einber heill; eingar andvarpanir, heldur lofsaungvar einir; þá munt þú gleyma allri sorg, en þó þú minnist hennar,

muntu samt gledja þig þar vid, ad hver einn dagur, sem þú lifdir hér, hafdi þér til betrunar, þér til uppvakningar og lærdóms, einnig nokkra þjáningu medferdis.

## 46. Hugvekja.

Hver, sem veit nokkud gott ad gjøra, en gjørir þad ekki, honum er þad synd. Jak. 4.

Hversu margar stundir munum vér ekki meiga halda tapadar, þegar herrann loksins krefur reiknings fyri þær? mun hver einn af oss þá framkoma þora fyri dómarann ad segja: herra eg hef á sérhverri stundu gjørt þad þú baudst mér? má ekki miklu framar margur á medal vor hinu kvída, ad hans sanna játning verdi: svo margar þúsundir stunda hef eg lifad og á medal þeirra svo margar, á hverjum eg hef ekkert gjørt, en eydt miklu fleirum med syndugu athæfi? hversu margar stundir hef eg ekki brúkad til ad sedja mínar girndir? og þessar stundir eru tapadar. Hversu mørgum stundum hef eg ekki varid til ónytsamlegra og jafnvel fáfeingilegra fyrirtækja? og þær stundir eru einnig tapadar. Hversu margar stundir hef eg ekki brúkad til þvílíkra hluta, sem ad sønnu áttu ad gjørast, en vóru þó ekki gjørdir í þeim tilgángi, ad vídfrægja guds dýrd og efla vorra medbrædra heillir?

einnig þær stundir eru tapadar. Hversu mörgum stundum eyddi eg ekki til þeirra hluta, sem ad sönnu vóru syndlausir, en urdu syndsamlegir, þared þeir geingu út yfir takmörkin, sem guds bodord höfdu mér fyrirsett? og þær stundir eru tapadar. Þegar vér nú einlæglega ransökum vort umlidna lif, vóru þá ekki flestar vorar æfistundir þannig á sig komnar! meigum vér þá ekki gjöra þá sorglegu játning: ad flestar vorar stundir séu illa sóadar? en hversu margar stundir munum vér eptir eiga enn þá til ad útsóa þannig? munum vér ennþá eiga svo margar stundir ólifadar, ad vér endurkeypt fáum vora svölludu tíd? máske vér varla enn þá eigum eptir áttunda part ad lifa mót þeim stundum, sem vér hingad til eyddum; máske oss nú ad eins sé þessi stund leifd. Æ! látum oss þá brúka þetta augnablik til þess, ad ydrast vorrar vanbrúkunar umlidnu stundanna, og med allri alvörugefni þeinkja til þeirra komandi. Því færri, sem þær vera kunna, því dýrmætari skulu þær oss; med tvöfaldri umhyggju viljum vér þær brúka, og ekki láta oss úr minni lída þann tilgáng, sem vort gjörvalla lif hafa á, sem er, ad búa oss sem betz undir þá laungu eilifd, svo ad vér í henni odlast mættum eilifa farsæld. Alltaf viljum vér setja oss Jesú dæmi fyrir sjónir, sem einga eina stund forsóm-

adi af þeim honum gefnar vóru hér á jørdu; ydnir skulum vér vera i þvi góda, á medan þad heitir enn þá i dag. Daudans nótt dregur yfir þegar minnst varir, og þá fær einginn leingur erfidad, en audveldlega getur missir einnrar stundar gjørt oss eiliflega ófarsæla. Ekki skulum vér gjøra oss umhyggju um þad, þó marga sorgarstund beri oss ad høndum, því framar reynist vor dygd, því hreinni verdur vor ánægja, því stærri verda vor laun, vér munum finna endurgjald allra velbrúkadra stunda á sídan i himninum. En þú, ó Jesú! hvers gjørvalla lif var svo óstraffanlegt, og enn hreinna, heldur enn sú stund, hverja hinn heilagasti vor fær bezt lifad, láttu allan grandvarlegleika, allan verdugleika þins heilaga lifs, forlíka fyrir allar vorar, til ills og ónýtis eyddu æfistundir; gefdu oss nád til á þessari stundu og jafnan ad hugleida og gjøra þad eina, sem heyri til vors fridar; einnig þessi stund er vor nádarstund. Gjør þú oss hæfilega til ad lifa þannig, ad þessi stund verdi oss ekki til ótta i daudanum, né til áfellis fyrir þinum dómstóli i eilifdinni! bænheyr þad, ó Jesú! Amen!

## 47. Hugvekja.

Allir vegir drottins eru einskær miskun og sannleiki fyri

þá, sem vardveita hans sáttmála og vitnisburd. Sálm. 25.

Yfrid mørg dymm og sorgleg tilfelli eru samtvinnud í voru lífi hér í heimi; vér vitum enn þá ekki, hvert þeir vegir muni oss leida, á hverjum guds forsjón býdur oss ad gánga. Vér sjáum fyrirætlanir enn þá óframkvæmdar, torfærur, sem bágar sýnast yfirferdar; vér verdum nokkurra tilfella varir med framtíd, sem virdast gagnstæd nádarríkum tilgángi guds og ýmislegra útbýtinga, hans velgjørninga, sem vekja opt ad eins sorglegan eptirþánka hjá oss. Margir vorra medbrædra í heiminum sýnast oss nád hafa, í ydjuleysi og løstum, ákjósanlegustu lukku, hverja vér, med øllu því ómaki, sem vér til hins sama vørdum, aldrei fáum ødlast. Vér sjáum þarna einn heilbrigdan midt í svalli og óhófi, en hér annan beygdan af krøm og veikindum, med allri hans hófsemi. Vér sjáum einn virdtan, elskadadan, vel metinn, þó med litlum eda eingum yfirburdum yfir hvern óvalinn mann, en þar á mót margan rádvandan og dugandis mann af mørgum hatadan, med allri hans dánumennsku. Þessi og þvílík tilfelli hins mannlega lífs, leida oss tídum til sorglegra umþeinkinga og møglunar á móti gudi. En — þegar vér nákvæmar yfirvegum allt þetta, meigum vér prísa gud eins

fyri það, að vér finnum aðrar røksemdir til þess-arar guðdómlegu ráðstøfunar, af hverjum vér þekkt fáum lukkunnar umbreytingar betur að sam-svara visdómi guðs og gæðsku. Þau völd, sem hinn óverðugi keppist svo ákaft að ná, eru hon-um opt falls ollandi; óhóffsamt svallara og sæl-kera munaðarlíf, verður einhverntíma ólifjan hans heilsu; viðhöfn og stærilæti hins drambsama varð að einberum hégóma; heimsins hól og hrósanir steyptu hinum metorðagjarna ónytjúngi, og út-vortis lukka óráðvandra, bjó sjálfum þeim hast-arlega biltu, þá minnst varði. O þú alvísa for-sjón! ekki viljum vér leingur lasta þínar ráðstaf-anir, hversu óljósar, sem þær á stundum virðast vorum skammsýna skilníngi, því myrkari, því huld-ari, sem þinn tilgángur er oss, því farsælli mun hann oss reynast; ekki skal það oss ángra, þó oss finnist þínir vegir á stundum krókóttir, held-ur gjøra oss rólega við yfirvegun margra þeirra dæma, sem vér á stundum sjáum fyri augunum, og þó helzt þeirra, sem vér heyrum opinberaða í þínu orði; þau dæmi hefur þú gefið oss til upplýsingar og huggunar um þína náðugu for-sjón, til þess vér ætíð skyldum treysta þér ein-um, hversu báglega, sem áhorfast kann og hvern-ig, sem allt veltist hér. Þú ert sá, sem með sérlegri náð minntist á Nóa í því almennilega

og mikla syndaflódi og sem uppihéldst örkinni i vötnum og ofsa regni. Þín forsjón vardveitti og leiddi Abraham frá ættingjum sínum til þess fyrirheitna landsins. Þú leiddir Jakob á hans ferdum; þú fórst med Jósep i Egyptaland, og frelsadir hann frá allri eymd; þú baudst hröfnum ad færa þínum spámönnum fædslu; þú hófst David frá hjardar geymslu til konúngstignar, og vér, erum vér ekki sjálfir vitni til þinnar dásamlegu forsjónar? hversu margir huldir vegir vors lífs eru oss nú ekki ljósir ordnir? hversu margt héldum vér ekki ólukkuefni fyrir oss, sem vér höfum sídan reynt, ad vard medalid til vorrar lukku? hversu opt hafa ekki þau harma tár, sem vér úthelltum á sorgar-dögunum umbreytst í fögnud og gledi? hversu opt höfum vér ekki byrjad þann dag med harmaklögunum og kveini, sem vér endudum med fagnadar lofsaung til guds? og hversu augljós mun oss þá ekki i himninum sídarmeir verda vísdómur og gædska allra þinna rádstafana? eilífi gud! vor trú og traust á þinni guddóms forsjón verdur æ því meir ad aukast, sem vér óefanlegri rökssemdir finnum um þína mildiríku forsjón; vér viljum med trúar-öruggu hjarta vænta þess alls af þér, sem naudsynlegt er, til vorrar sönnu lukku og farsældar; alla vora vegu, öll vor efni viljum vér

fela í þitt vald og umsjón, og undir eins stöd-uglega vona, ad þú munir allt vid oss vel gjöra; vér þekkjum ekki þá vegu, um hverja þú vilt leida oss, en þetta vitum vér og þad hughreyst-ir oss, ad hvernig sem þeir oss áleingdar virdast, munu þeir þó, vid nákvæmari yfirvegun, gefa oss ætíd nóga orsök til þeirrar vidurkenningar: Drottinn! réttlátir og sannir eru þínir vegir! þú ert hulinn gud, þú, Israels gud, vor frels-ari! lofad veri þitt nafn ad eilífu!

## 48. Hugvekja.

Bidjid óaflátanlega. 1 Tessal. 5.

Bænin er eitthvert dýrmætasta medal til ad gjöra oss hæfa til medtöku guds velgjörninga; því ekki er vegurinn nema einn til þess, ad ödl-ast vináttu guds, sálar ró og von um eilífa himnaríkis sælu. En — hver er nú þessi veg-ur? hann er audmjúk medkenning vors veikleika og allra vorra misgjörda, en örugg trú og traust til miskunsemi og gædsku hins allrahæsta guds. Til þessarar audmýktar og trúnadar trausts fær trúud bæn leidt hinn beinasta veg. Þegar vér skynsamlega ákölum gud og bidjum hann einhvers, hvers helzt, sem vera kann, med hvílíkri tilfinningu eginn vanmáttar, hvílíkum ord-um ber oss þá fyrir hann ad framkoma? mun

þad ſke án þeſs neydin bendi oſs til, hverſu van-
megna vér erum henni ſjálfir af ad létta, og
þeſsvegna undir eins til ad audmýkja og vidur-
kenna oſs óhæfilega til ad vidhalda, vernda, betra
og helga oſs ſjálfa? vogar þá nokkur af oſs ad
treyſta ſvo á ſinn eginn fánýta mátt og alls
eingan verdugleika, ad hann ekki ſegi med Abra-
ham: herra! eg hef dirfſt ad tala vid þig, þó
eg ſé einúngis dupt og aſka? dyrfiſt þá nokkur
af oſs annad enn játa med Jakob: eg er allt
of óverdugur allrar þeirrar miſkunar og trúfeſti,
ſem þú hefur audſýnt mér? einkum þegar vér
gætum þeſs, ad vér frá barnæſku vorri erum af
ſyndinni flekkadar manneſkjur; jafnvel þó gud frá
barndómi hafi gefid oſs óteljanleg merki og ſann-
færingar um ſinn kærleika, høfum vér þó ſvo
gálauslega, ſvo mótþróanlega brotid hans bodord.
Þegar vér dirfumſt enn þá ad bidja gud um
fleiri velgjørninga, megum vér þá ekki andvarpa
med audmjúkum anda og ſegja: Drottinn! høndl-
adu ekki vid mig eptir minu óþakklæti, endur-
gjald mér ekki eptir misgjørdum minum? i því-
liku áſtandi fáum vér ekkert annad gjørt, en ſett
allt vort trauſt til guds nádar, fyrir Jeſúm
Kriſt; ekki fáum vér reidt oſs uppá egin dygd
vora, ſem er ſvo veik, ſvo ófullkomin, ſvo blønd-
ud breiſkleika, heldur einúngis uppá verdſkuldun

og fridþægingu vors guddómlega frelsara. Í þessari trú megum vér þar um fullvissir vera, ad gud ekki muni synja oss þess, sem efla má vora sønnu og varanlegu lukku; med því innilegri hjartans vidkvæmni, sem vér andvørpum til guds, sem vors mildiríkasta fødurs, því øruggara verdur vort sonarlega traust á honum; því nákvæmlegar, sem vér setjum oss fyrir sjónir ad ødru leyti vorn óverdugleika, en ad hinu, fridþægjandi pínu og forþénustu hans sonar, því óhvikulli og sigursælli verdur vor trú. Vér verdum þar vid hæfari til ad medtaka guds ómetanlegu nádar gædi. Þad er í trausti Jesú fullnægjugjørdar fyrir oss, ad vér med gledi og djørfúng vogum ad nálgast, í audmjúkri bæn, vorn himneska fødur; ó hvilík heiløg gledi! hversu óútmálanlegur føgnudur! hvilíkur forsmekkur hinnar komandi himnesku sælu gefst oss þá ekki í bæninni! ó! ad vér því ekki leingur vanrækja nædum, ekki leingur med gáleysi æfa svo heilaga ydju! ó! ad vér þó vildum ydduglegar yfirvega hver lukka þad er fyrir synduga manneskju, ad voga ad tala í bæn sinni vid gud og kalla hann sinn fødur!

Upp til himins med hjarta hreint,
Ad horfa' og segja: gud minn! þú
Ert æ mitt athvarf ljóst og leynt,
Hver lukka veitist stærri' enn sú?

Sæl ertú, kristna manneskja! sem grundvallar þína trú á Jesú friðþægingu og fyribón! ó! hvílík lukka þér, nú þegar hér í lífi er gefin: að hann vill heyra þína bæn og þitt ákall, sem er þinn góði og almáttugi faðir? hvílíka rósemi finnur þá ekki sála þín, já, fögnuð, sem útpressa mætti einhver gleði-tár af augum þínum, þegar þú upplyptir þeim til guðs, sem er þér allt og þín öll von? þessa lukku, þessa rósemi má vor auðmjúk og trúarörugg bæn afreka oss, þá munum vér reyna, hversu kröptugt þetta farsældar meðal er, til að styrkja vorn hug og vora von. Vér framgaungum þá, líknarfulli faðir! hraustir og ókvíðnir undir þinni varðveitslu og náð og styrktir af þínum krapti; glaðir tökum vér á móti sérhverri sorg, nauð og hættu, sem aðkoma kann. Þannig í vorum bænum að mega umgángast þig, ó vor guð! hér á jörðunni og vænta enn framar að vera á síðan eilíflega hjá þér í himninum, það sé æ vör huggun og vor gleði, vor styrkleiki og vor vegsemd í lífinu. Amen!

## 49. Hugvekja.

Vitið þér ekki að þér eruð guðs musteri og að guðs andi byggir í yður. 1 Kor. 3.

Að vera guðs barn og musteri hans heilaga anda, það er sú æðsta farsæld, sem veita má ó-

metanlega mikla gledi sérhverjum kristnum, sem hana á. Séum vér guds børn og eilífs lífs erfingjar, høfum vér þegar ødlast miklu meira enn heimur þessi fær nokkurutíma gefid oss, ellegar frá oss tekid. Hvad er þad til á vorri jørdu, sem framar megi auka oss hrigdar, þegar vér med vitnisburdi hins heilaga anda erum fullvissir um velþóknun guds? Máske oss hriggi missir eda skortur einhverra jardneskra audæfa? en sérhvert guds barn á óendanleg audæfi í vændum. Sé gud vor fadir, mun hann víst ala ønn fyrir oss hér í lífi. Máske oss hriggi einhver ærukreinking eda virdinga missir? en fáum vér nokkurn tíma ædri virdingu nád, enn þeirri ad vera sameinadir óendanlegum gudi? þær sálir, sem af íbúd heilags anda eru hafdar upp yfir allra holdlegra girnda yfirdrottnun, þekkja og gledjast vid adra lángtum ædri vegsemd, lángtum hreinni lystisemdir enn þær, sem hafa sín upptok af sýnilegum og hégómlegum hlutum. Vér þekkjum og umgaungumst þá jafnvel hér þann gud, sem er sjálfur kærleikurinn, sem svo fodurlega lét sér um oss hugad vera, ádur enn grundvøllur veraldarinnar var lagdur, sem er alvís, nádugur og miskunsamur fadir og gud, sem stjórnar øllum hlutum til vorrar sønnu farsældar. Vér þekkjum og reynum hann ad vera vorn trúfasta og eilífa

vin, sem situr á guddómsins veldisstóli, sem af kærleika til vor borid hefur allskonar ørdugleika hins mædusamasta lífs, og sjálfur látid lífid fyrir oss; vér þekkjum og finnum andans verkanir, sem uppfylla oss med fridi og gledi hins eilífa lífsins. Guds vinfeingi og sálarinnar rósemi, er því vor ríkdómur, vor heidur, vor huggan og vor sáluhjálp hér á jørdunni. Skal þá ekki svo ómrædileg guds nád vekja i oss laungun ad þjóna gudi med því hreinna framferdi? en — hvad er þó náttúrlegra enn þessi þánki: eg er fyri trúna ordinn guds barn; holdsins girndir, heimsins fásinnu finn eg nú gagnstædar minni ákvørdun og voninni um hid eilífa líf, sem gud hefur verkad í minu hjarta; allt of dýru verdi er eg til þess keyptur, ad eg hér eptir vera skuli heimsins og syndarinnar þræll. Min kostgæfnasta ástundan skal því framvegis mida til þess, ad hriggja ekki þann anda, af hvers íbúd eg nýt þeirrar lífsins yndælustu lukku, lífsins ánægju og rósemi, og ad missa ekki aptur þá nád, sem gud, af óverdskuldudum kærleika, hefur kallad mig til. O! þú, gódi guddóms andi! innrættu sjálfur vorri sálu þetta þér þóknanlega hugarfar; stjórna þú og upplífga oss, svo ad vér med þinni vegleidslu mættum fá umflúid þær snørur, sem hold og heimur svo optlega leggja i veginn fyrir vora

dygda æfíngu; upplys þú vor augu, svo ad vér þekkjum þær háskasemdir, sem umkríngja oss, en gef oss øruggan hug og dug til ad strída gegn þeim; leid þú oss á réttum vegi, svo vér ekki villumst af honum fram á lastanna léttfæra veg, né þar med leidumst enn leingra frá voru rétta takmarki; gef oss nád til ad veita þeim bendíngum eptirtekt, med hverjum þú vekja vilt vora sálu, en ekki mótþróanlega nidurþagga þær; styrk oss á sorgar og neydarinnar degi med þinni huggun og hjálp; lát vora fullvissu um þá sælu, sem vér egum í vændum í eilífdinni, æ sterkari verda, ætíd meir lifandi í vorri sálu; undirbú þú oss þannig, vor gud! ad vér kvedja kynnum heim þenna med rósemd og gledi, hvenær sem þínum vilja hédanaf vel þóknast.

## 50. Hugvekja.

Hver vill skilja oss vid guds elsku? hørmúng eda mótlæti? ofsókn edur húngur? klædleysi eda lífsháski eda sverd? allt þad fáum vér yfirunnid fyrir hann, sem oss elskadi. Róm. 8.

Vort náttúrlega vanmætti er oss af eingu audsjáanlegra, enn þegar vér hugleidum svo margan gódan ásetníng, sem vér høfum oss stodugt í hjarta, en aldrei verdur af oss framkvæmdur. Hversu mørgu lofum vér ekki gudi á morgni hverjum í vorum daglegu bænum, þegar vér

gaungum til altaris, við viss tilfelli, sem gjøra oss hugsjúka fyrir voru lifi? hversu tíðum má ekki einber góður ásetningur vera í stað vors gjørvalla kristinndóms? og hvar er þá framkvæmdin? með hverju sønnum vér þá, að ásetningurinn hafi verið vor alvara? það er einúngis víst, að guð hefur ekki hér í heldur látið oss skorta sína þekkjanlegu hjálp; frá honum einum kom oss sá góði ásetningur, með hverjum hann vildi fá oss uppvakta og leidda til að æfa það góða; en að vér ekki látum þetta guðs verk í vorri sálu ná sínum tilgángi, það vottar ljóslega vorn óvilja, vora leti, vorn mótþróa og vort gáleysi. Að sønnu vantar oss ekki afsakanir og hindranir, en vóru þá vorar afsakanir æ sannar og hindranirnar óvinnandi? megum vér afsaka oss með vanmætti vorum, þar vér vitum að guð, eptir velþóknun sinni, verkar bæði viljann og framkvæmdina í oss? ellegar, vantaði oss tækifæri til að framkvæma vorn ásetning? hvernig feingjum vér og þetta sagt, án þess að vort gjørvalla líf vitnaði á móti oss? hvílíkan skaða høfum vér ekki gjørt oss sjálfum? hversu mikið gott er ekki forsómað? hversu mørg tækifæri til hins góða øfum vér ekki þar við mist? vor samvitska hefur að sønnu máske nokkuð hrærst um sinn, en vort hjarta hefur síðan orðið því

harðara og þverbrotnara, er þá ekki að óttast að vér höfum upptendrað með þvílíkri aðferð, guðlega reiði gegn oss? Ó! að vér værum eins staðfastir í vorum ásetningi, sem sá fortapaði sonur, er ekki að eins ásetti sér að snúa heim aptur til föðurhúsanna, heldur gjörði sig að öllu ferðbúinn, já flýtti sér heim; máske vér birjum nú á þessari stundu helgan ásetning? að minnsta kosti bæri oss að gjöra það. Ó! að hann þó, eins og fyrrum svo margur góður ásetningur, ekki hvirfi burt samstundis! snúðu því öllum þínum hugrenningum, sála mín! til þessa efnis, og gef þú með athygli gaum að þeim góðu hræringum, sem í hjarta þínu uppkoma kunna; sláðu ekki á frest að framkvæma þenna ásetning, þar þú allteins lítið ræður yfir hjarta þínu og ókomnu tímunum. Endurnýaðu nú á þessari stundu þann sáttmála, er þú svo opt brotið hefur og vertu framvegis stöðugri í þínum góða ásetningi. Drottinn guð! þér er allt vort hugarfar, allur sá ásetningur kunnur, sem nú kviknar í vorri sálu. Þú veitst hversu breytilegt og hvikult, hversu veikt, hversu þverbrotið vort hjarta er; æ! gjör það staðfast, öruggt og hlýðið í því að æfa hið góða. Uppvektu vora sálu sífelt með góðum og heilögum hræringum, sem þinn andi verkar í oss! hjálpa oss til að framkvæma þann

góda ásetning, er vér nú byrjum, ad vér ekki vanrækjum vora sáluhjálp eda torthýnumst vegna þess góda ásetnings, sem vér aldrei kappkostudum ad framkvæma.

## 51. Hugvekja.

Allt umbreytist i heimi hér, um harmakjør min allteins fer; gud farsæl afdrif gefur þeim, gædskan hans alvøld stjórnar heim; þjáist hér hold og þoli hel, þar lidur mér um eilifd vel.

Ekkert augnablik er til, sem er ødru fullkomlega likt. Vort ástand umbreytist sifeldlega og — sem sérlegast er — vér vér verdum þess allteins litid varir, hversu hastarlegur óstødugleikinn er og hins, hversu fljótt jørdin á sérhverjum degi veltist i hring. Jafnvel oss þægilegustu hlutir eru hvad mestum óstødugleika undirorpnir; nú erum vér heilbrigdir, gladir, ánægdir, en munum vér einnig verda þad á næstu stundu! ské má vér stridum þá vid daudann eda einhverja sorg og mædu; einnig þetta augnablik, sem vér brúkum til samtals vid gud, hverfur ódfluga burtu og hvad er þad nú? hver þess vottur framar? Vissulega er þad sorglegt, þegar vér yfirvegum allra hluta óstødugleika og verdum þess sifelt varir, ad timinn lidur á burt, rétt eins og reykur eda fossandi vatnsstraumur.

Hversu opt gledjum vér oss ekki af blómlegum og heilbrigdum líkhama, af rjódum kinnum og hraustlegu yfirbragdi, af fjørmiklum sálar og líkhama kroptum, en skyndilega hverfur vor gledi, þegar oss rennur í huga, ad máske nú þegar verdi vor líkhami máttlaus, afskræmdur, ørendur, vidbjódslegur. Hversu ánægdir erum vér ekki í skauti vorra kærustu vina, þegar innvortis kærleiki sameinar þeirra hjarta vid vort og sameginleg sorg gjørir vora eymd ad þeirra egin? en þegar oss hvarflar þá í hug, hversu umbreytanlegt og fallvalt þetta allt er, ellegar vér alvarlega setjum oss fyrir sjónir þann tíma, þegar vér munum apturlykja þeirra augum edur og þeir vorum, æ! þá meigum vér í hvert sinn hriggjast, þegar vér litum þá og undir eins munum til þessa. En þid: ríkdómur, metord, sælllifi og von! hversu opt hughreystum vér oss ekki vid ykkur í voru lifi? en þegar vér íhugum ykkar óstødugleika, hversu beisk og sorgleg verdur oss þá ekki ykkar umhugsan? hversu gladvært verdur ekki vort auga vid morgun sólarinnar uppruna, en hve sorgfullir verdum vér ekki þar á móti þá oss hvarflar í hug, ad sólin líka einhverntíma verdur myrk fyrir vorum augum og morguninn ekki framar gledur vort hjarta? vid þvílíka ógedfelda reynslu, hlýtur vort hjarta ad

hryggjast, en hrestu þig upp, sála mín! láttu einga sorg yfirbuga þig; óstødugleiki jarðneskra hluta má gjøra þig vísa og lukkulega; sjálfur þeirra óstødugleiki fær opinberað þér mikilleik guðs almættis; í hans hendi eru allar þíns lífs og lukku umbreytingar, sérhver þeirra leggur sitt til fullkomnunar þess gjørvalla. Hversu jafngeðja máttu ekki loksins vera, þegar þú hugleiðir náttúru þeirra hluta, sem hjarta þitt er svo fastlega bundið við? hversu léttara mun þér þá ekki falla að missa þessa hluti, þegar þú fyrifram hugleidt hafðir hvernig møgulegt og líklegt það sé, að þú munir þá missa? þú átt þó einkis að njóta af øllu því, sem þér fellur í skaut øðruvísi, en eins og það væri á hlaupum. Þú mátt smakka lífsins saklausu ánægju, en hennar óstødugleiki á að kenna þér, að gefa þig ekki alla við henni. Þú átt að álíta jørðina eins og hennar gæði verðskulda, en við endurminningu þeirra forgeingilegleika að dempa þína offreku laungun til þeirra; þakklát og undrandi máttu skoða og meðtaka vordaganna fegurð, þeirra lokkandi prýði og heillasømu gladværðir, en læra þó þann vísdóm af sérhverju blómstri og laufblaði, að hugleiða endir allra hluta; þar við á að vekjast hjá þér laungun eptir betra og fullkomnara lífi, hvar eingin umbreyting eða umskipti, einginn óstødug-

leiki mun framar finnast. Því optar, sem forgeingilegleiki og óstødugleiki mannlegs lífs verdur þér fyrir sjónir settur, því vissar sannfærist þú um þá farsæld, sem í betra lífi bídur þín og ad varanlegleiki þessarar farsældar muni þar umbuna þér allra hluta óstødugleika hér á jørdu, þá verdur þú guds og hann verdur þinn; já, eilíflega verdur hann þinn, og frá honum mun þig ekkert fá skilid, ekki þreyngíngar, sorg eda missir eda neyd, hvorki helvíti, líf né daudi.

## 52. Hugvekja.

Er gud med oss, vér eingri þá ólukku þurfum kvída,
hann má traust setja hverr einn á, í hrígdum mædu tída. — —

Hvernig, sem vér í huganum virdum fyrir oss vort ásigkomulag, í hverjum helzt lífsins umbreytíngum vér adgætum þad, sjáum vér ætíd og allstadar eigin eymd vora, neyd og þarfir, en undireins forsjón guds því addáanlegri, því vissari. Ef vér yfirvegum þad hjálparlausa ástand, í hverju vér bárumst inni heim þenna, þá sjáum vér, ad varla er í gjørvøllum heiminum ad finna svo ófæra skepnu til ad bjarga sjálfri sér, sem manneskjuna; jafnvel þá, er vér høfdum nokkrum þroska nád og ødlast meiri krapta, vórum vér þó allt of vanmegna til ad útvega sjálfum oss

forsorgun. Vèr erùm undirorpnir óteljandi útvortis mótlætingum og margvíslegri innvortis óróssemi, þúngum høfudskèpnanna áføllum og annara manneskja ofbeldi, svo ad øll mannleg forforsjálni reynist næsta veik til til ad fá oss fyrir því verndada, og allur vor kraptur ónógur til ad afstýra þeim áføllum, sem oss eru búin af øllu þessu til skada og tjóns. Margar þúngar freistingar, margar huldar tálsnørur verda í vegi fyrir oss, sem vér hvorki fáum þekkt né hindrad; vér kunnum ad rata í margar og óvæntar háskasemdir, sem eingin mannleg greind fær fyrirsjed; vér erum undirorpnir margsháttar veikleika og sjúkdómum, mørgum órétti, svikum og prettum af ødrum, svo vér ørvænta mættum ad komast af, já, øldúngis vanmegnast undir synda, sorga og eymdanna byrdi, ef vernd guds forsjónar skildi vid oss. Auk allra þessara tilfella, sem ofbjóda vanmætti vorum, þurfum vér enn þá ad strída vid skort og ørbyrgd. Vér verdum varir hjá oss fýsna og tilhneiginga, sem vilja láta sér fullnægja, sem annars ángra og kvelja og gjøra oss órólega. Ef ad vér hefdum nú einga adra hjálp í þessu ástandi, enn vora eigin krapta, hversu illa yrdi vid þessu rádin bót, hvernig vorum skorti aflétt? hversu fáar óskir vorar feingjum vér þá uppfylltar? ó-

fyrirsjed tilfelli, óvæntar hindranir megna ad ónýta jafnvel vort forsjállegasta áform og öll þau medöl, af hverjum vér væntum oss mestra heilla, duga allopt ekkert; því yrdi þad med öllu forgefins, þó daglega risum upp árla, gjördum nætur ad dögum og ætum vort braud med sorg, ef guds adstod ekki blessadi vora ástundun og styrkti vor fyrirtæki. Sérhver dagur færir oss heim sanninn um allt þetta, margvíslega og daglega verdum vér varir vid veikleika vorn, þörf og eymd vora. En, svo mjög, sem þessi hugleiding mætti svipta oss hug og dug, svo kröptuglega finnum vér oss þó styrkta og hughreysta, þegar vér íhugum þann sannleika: ad sá almáttugi himins og jardar skapari á hvern vér trúum, er vor fadir og velgjörari. Undir hans umsjón gaungum vér med gledi á móti öllum þeim tilfellum, sem kunna ad hitta oss. Med fullu trúnadar trausti afhendum vér öll vor efni í hans nádarríku stjórnun; af vorum gudi, sem elskadi oss svo heitt, ad hann útgaf sinn eingetinn son Jesúm oss til endurlausnar, megum vér vænta oss alls þess góda, sem vort frelsi og sáluhjálp vidþarf; já, hann, sem gaf oss Soninn, mun vissulega géfa oss allt gott med honum. Sú von og fullvissa mun og hughreysta oss í sérhverri eymd og neyd; hún skal oss jafnan nóg,

þó eitthvad af tímanlegum munum bresti, og heimsins blídt atlæti umflýi oss, þvi sé gud med oss, hver kann þá vera í móti oss?

## 53. Hugvekja.

Æ! vöknum daudinn ádur enn kallar, oss á óvæntri héd-
an stund; aldradir bædi og úngir falla í sótt og
hraustir hels í blund. Sin afdrif fyrir einginn sjer,
ætíd vidbúinn sæll þvi er.

Hvilíkur ásetníngur er oss mönnunum hæfilegur, hverra líf er svo stutt, og har hjá einka mikilvægur. Hversu skammur tími er þad, sem vér eigum enn þá ólifadan? eru þad hundrad, edur eru þad færri ár? og þó þad væri nú einhver hin leingsta áratala, mundi þó ekki sú eilífd, sem alls einga áratölu né enda hefur, krefja öll vor ár til undirbúníngs? eda vitum vér fyrir vort banadægur? getur þad máske ekki runnid oss upp med morgundeginum? er þá undirbúníngur undir daudann nokkurra ára, mánada, fárra daga eda augnablika verk? hlýtur ekki vidurkenníng syndarinnar og ángur af henni á undan ad gánga, eda vort hjarta og gjörvalla hugarfar ádur ad umbreytast, enn vér stígum þad mikilvæga stig, yfirum takmörk tímans og eilífdarinnar? hversu mikill eptirþánki, hversu miklir kraptar útheimtast ekki, ásamt vidvarandi ydni og

ástundun, hér til; hversu naudsynlegt er ekki þess vegna, ad vér nógu snemma gjørum oss vidbúna, já, búumst sem bezt undir þetta mest áridanda stig af øllum? Þad, sem enn er eptir af vorri hérvist, hvort heldur þad eru ár, dagar eda fá augnablik, hverfur ódum á burt og þessir ókomnu tímar munu þó auka vora fordæmingu á sídan, ef ad vér ekki brúkum þá forsjállega. Fyr enn vér verdum þess varir, er vort endadægur upprunnid, og daudinn fyrir vorum dyrum, og þá mundum vér fyrst hriggvir skelfast, ad allur vor gódi ásetningur í svo lánga tíma vard ad eingu. Hversu skamman tíma egum vér enn ólifadan, spyrjum vér aptur? vér vitum þad ekki, og þessi óvissa ætti ad gjøra oss forsjála og umhyggjusama um brúkun vors lífs. Vér ættum ætíd þannig ad lifa, eins og sérhver dagurinn væri sídastur vors lífs, vér ættum ætíd svo ad breyta, sem vér mundum óska oss ad hafa breytt vid endir vorra daga. Vér ættum ekki ad mæta voru endadægri, sem vitstola menn og gárúngar, heldur med yfirvegun og gódum undirbúningi; opt ættum vér ad spyrja oss sjálfa: munu þessar lystisemdir, þessar gladværdir, þessi ríkdómur, þessi metord verda mér som í daudanum og eg álít þau nú, á medan eg lifi heilbrigdur? mun eg þá med ánægju minnst geta þeirra athafna,

sem eg nú hef fyrir stafni, þegar eg á banasænginni renni augunum til baka til míns liðna lífs, og hugleiði öll míns lífs fyrirtæki? þegar vér höldum sífeldt áfram þessari eptirgrenslun í öllum lífsins athöfnum með réttri hjartans einlægni og stöðugleika, mætti hún að minnsta kosti hafa þá heilsusamlegu verkun fyrir oss, að vér forsjálli yrðum í brúkun jarðneskra hluta og vorum fyrirtækjum. Æ! tokum nú á þessari stundu fyrir oss nýtt og betra sinnislag; í dag erum vér einum degi eldri orðnir, ellegar, sem er hið sama, vér erum komnir einum degi nær gröfinni enn í gær. Líf vort kann máske enn þá að vara nokkra, en þó til vissu mjög stutta stund, ef vér metum það eptir augnablikum og jöfnum svo saman við eilífðina; en uppá þessa svo stuttu, svo óðfluga og hverfula stundu á þó að koma vor eilífa lukka eða óhamingja. Hversu dárlegt má það þá ekki virðast, að láta sér öldúngis úr minni líða, vegna þessa nálæga og þegar útrunna lífs, vora eilífu ákvörðun? eða skulum vér, skynsemi gæddir og af Jesú endurleystir, vér, sem erum himinsins borgarar, lifa allteins og dýrin, sem einga réttnefnda skynsemi öðluðust, hafa þess vegna eingar skyldur að varðveita, ekki heldur sektir fyrir þeirra vanrækt að óttast? eigum vér þá þánkalaust að eyða þeim stundum, sem ekki

eru vor eign heldur enn annad? skyldum vér hafa lifad svo marga daga, sem allur vor aldur innibindur, en geta þó ekki sagt um einn þeirra: þenna dag hef eg verduglega lifad? skulum vér fresta vorri yfirbót uns hin lánga og ógnarlega eilífd yfirfellur oss midt í andvaraleysinu? Onei! ónei! veri nú sá ásetníngur stødugur hjá oss øllum á sérhverjum tíma, sem gud unnir oss lífsins, ad hugleida og verka vora sáluhjálp, þá verdum vér sælir!

## 54. Hugvekja.

Kenn mér þá vitsku vel ad telja vegferdar minnar daga hér, ad þinn eg stundi veg ad velja, vakni til sælu' og lífs hjá þér. O gud! þá daudans dregst ad nótt, deyja gef þú mér vel og rótt!

Sá tími mun einusinni adkoma, sem svipti oss øllu því, er vér nú álítum ávinníng vorn. Vort líf, vor heilsa, vor tímanleg velgeingni, metord og lystíngar, allt hvad vér kært høfum í þessum heimi, varir þó ekki leingur enn til vors dauda dags, og þegar ad þessum degi er komid, eru øll vor fyrirtæki, sem vér ásett høfdum ad framkvæma, topnd, vér hljótum þá ad snúa bakinu vid því øllu, sem vér nú álítum ad vera oss ávinníng á jørdunni. Hversu umhugsunarverdur og þó óþægilegur, má ekki sá tími vera sérhverr-

ar manneskju náttúrufari, þvi daudinn er náttúrunnar óvinur; það er þvi ónáttúrlegt ad bera eingan kvidboga fyrir þvi, sem lifi voru er skadvænt; hversu þúngt er ekki vorri mannlegu náttúru ad yfirgefa sambúdir hinna lifendu, vorra kunningja, vorra ástvina, og sjá þann tima nálægjast, sem leidi oss i hid ókunna land hinna daudu, hvar vér eiliflega hindrumst frá þeim athøfnum, sem vér álitum oss hér naudsynlegar; ad rykkjast burt frá vorum allra beztu vinum, sem elskudu oss eins og sinn augastein, já, héldu oss ad vera það tré, undir hvers skugga þeim var øll ánægja ad mega hvilast; ad fá alls ekkert med oss tekid af allri vorri útvortis vegsemd og yfirlæti, nema lélegan moldar-hjúp, sem þó ekki fær likamann verndad fyrir rotnun og ormanna nøgun; hversu fátæka gjørir oss ekki þessi timi? fátækari enn vér vorum allt frá vorum fædingardegi. Uns vor daudastund adkom, vorum vér máske virdtir og heidradir af hverjum manni; vor rád voru sókt, vorum bodum var fylgt, þángad ad og ekki leingra nádi vor eignar-réttur á þvi, sem vér undir høndum høfdum. En, daudinn sviptir oss øllum eignar-rétti og allri eign og hvorki má framar heita um likhama vorn og likkistu, né um grøf vora, ad þetta, auk heldur annad, sé þadan af vor eign;

líkhama og kistu eignast ormar og rotnan, og sömu gröfina allopt adrir medbrædur vorir; mun ekki þessi tími mega óttalegur virdast vorri, vid þenna heim svo fast bundnu, náttúru? efalaust má hann þad vera þegar vér álítum daudann eins og náttúrlegar manneskjur; en — sem kristnir — ödlumst vér strax annad hugarfar; allt hid óttalega fær annad útlit í vorum augum; missirinn verdur vor ávinningur, þegar vér álítum daudann eins og sannkristnum ber; því þegar vér nákvæmlega adgætum endir vorra náttúrlegu afdrifa, gefst oss ánægjanleg orsög til gledi. En, ó þú, lífsins og daudans herra! þad er þessi hættusami tími, sem vér hugsum svo lítid um, en skelfumst þó fyrir, því vid hans umhugsun hverfur öll vor lystisemd. Æ! virdstú ad gjöra oss daudans umhugsun þæga og óttalausa og leida oss fyrir sjónir vora réttlætingu í daudanum frá syndinni, vort fullkomnada frelsi, vora eilífu sáluhjálp, þad hnossid, sem vér keppumst eptir og þá lífsins og vegsemdarinnar óforgeingilegu kórónu, sem umbuna alla vora mædu. Gjördú oss vitra, kenn oss opt og ydugloga ad hugsa — jafnódt og vorar æfistundir framlida — þannig: lof sé gudi! nú er aptur eitt stig til eilífdarinnar áfram komid! Þegar nú loksins þar ad kemur, ad allar vorar lífsstundir eru útrunn-

ar, lát oss þá sofna útaf með ánægju i hjartanu, svo vér aptur megum uppvakna i eilifri gledi. Aldrei fáum vér hér i heimi meiri blessun oðlast, aldrei farsælli og rólegri lifað, enn þegar vér vitum og fulltreystum því, að þessi vor ósk muni verða af þér bænheyrð; já, þú munt bænheyra oss, mildasti faðir! vér reiðum oss uppá þína miskun i Jesú nafni, og fulltreystum því, að sökum hans pinu og dauða, viljir þú einnig farsæla vorn siðasta viðskilnað, þegar vér ástundum að búa oss verðuglega undir hann, með því að hlýðnast þinum boðorðum, og á meðan vér lifum, ástunda að þóknast þér. Æ! vertú jafnan i vorum breiskleika máttugur! Amen!

## 55. Hugvekja.

Hvað viltú svo kveina' og klaga, kjør útskipt þér sála
min! því með sorgum svo þig naga? sjá! þinn guð
vill heillir þin; eg i guði glaður er, guð! min sál
fulltreystir þér, øllu', er reyn' eg, viltú venda til veg-
samlegs og farsæls enda.

Að øll vor sorg og mæða i heiminum er svo óstøðug, gefur oss huggun i sérhverri eymd; einginn er fri frá sorgum og andstreymi á jørðunni um alla æfi sina; lofaður veri guð, að allar vorar mótlætingar, allir vorir hrigðar timar eru umbreytingum undirorpnir! væri allt annað

undir sólunni forgeingilegt og óstødugt, en eymdirnar einar óumbreytanlegar, þá hefdum vér fyrst efni til ad andvarpa og kveina yfir voru lifi; en oss til heilla og huggunar eru þeir útvortis hlutir, sem mega hriggja oss, allt eins breytilegir. Opt þerrast vor tár i sama vetfángi og vér grátum, og þegar vér byrjudum eina stund med umkvørtunum, endudum vér hana allopt med gledi, og høfum vér ekki einatt um æfi vora fundid marga þesskyns gledirika reynslu? hversu tidum veinudum vér ekki ad morgni dags: drottinn hefur gleymt mér! en ádur enn kvøldid kom, máttum vér vidurkenna: drottinn minntist min og blessadi mig; jafnvel undir sjálfri mótlætinganna byrdi, hefur gud opt rétt oss þá endurnæringu, sem lét oss gleyma allri vorri sorg; hversu óvidurkvæmileg var þá tidum vor umkvartan yfir varanlegleika eymda vorra! hversu grundvallarlaus vor vantrú, og ótilhlýdileg vor møglan á móti guds forsjón! ef ad vér vildum leitast vid ad útvega sjálfum oss rósemi, gefum þá gætur ad þeirri nákvæmu og mildu forsjón med hverri gud leidir sín børn. Jósephs lif, Jobs forløg, Davids tilfelli, já, Jesú sjálfs nidurlæging, getur sannfært oss um, hversu visdómslega, hversu nádarsamlega gud hagar breytingum þessa mannlega lifs. Því skyldum vér þá vanvirda svo þann náduga,

alvísa stjórnara allra mannlegra tilfella, ad vér ekki tækjum oss af þessum og óteljandi ødrum dæmum, huggun og gledi í vorum ókomnu lífs-stundum? Hvernig feingjum vér verdskuldad ad lifa nokkra glada stund, ef vér ekki viljum þolinmódlega umbera hinar ógedfeldu? Þessar nú nálægu stundir geta verid oss á einhvern hátt mótdrægar, því sífellt finnum vér nóg tilefni, sem gjøri oss hugsjúka og ángurværa. Látum nú þessa stund vera oss til reynslu og æfingar í þolinmædi, til ad leggja oss med ánægju undir vors guds vilja. Vér skulum einga áhyggju bera fyri ókomnu tímunum, heldur dæma um þá eptir hinum umlidnu, en einsetja oss ad lifa bædi þenna og sérhvern dag vel. Ekki skulum vér festa vora þánka einúngis á mótlætingum þeim, sem oss þykja nú máske bitrar, heldur minnast hinna tímanna, á hverjum vor neyd muni umbreytast til hagsælda og vor hrigd snúast í føgnud. Sé nú þessa tíma svo lángt ad bída, sem vill, hann kemur samt efalaust, þó ekki yrdi fyr enn vid umskipti tímans og eilífdarinnar. Þá mun allt þad fyrir oss upplýsast, sem oss er nú of mirkt og hulid, um tilgáng guds med hans reynslu og bendingar hér á jørdunni; þá mun þad einnig heita mega um oss; byrjanin var undrunarverd, en endirinn vegsamlegur. En máske vér á þessari

stundu egum vid eingar mótlætingar ad berjast, né þurfum ad stynja undir nokkrum þjáningum, en munu þá ekki heldur neinir aumir finnast í kríngum oss, sem nú andvarpa mega? í vorri breytni vid þá skulum vér leitast vid ad verda gudi líkir, og svo framt vér megnum, lina og létta þeirra eymdum. Þad kærleiks verk mun einhverntíma hughreysta oss, þegar vér erum í eymdum staddir, og þar ad auki áfýsa adra ad létta undir vora byrdi, þegar mótlætid heimsækir oss eins og þá, og þó þad yrdi ekki, mun samt gud sjálfur verda vor trúfasti hjálpari, sem stjórnar øllum vorum mótlætingum til farsællegs enda. O! hversu gladir megum vér ekki vera þá, þegar gud stjórnar øllum efnum vorum! hann mun og, vegna Jesú fridþægingar, aflétta allri neyd.

## 56. Hugvekja.

Eg vil þakka drottni í mínu hjarta; eg vil segja frá øllum þínum dásamlegu hlutum, eg vil gledja mig og fagna í þér; eg vil sýngja þínu nafni lof, þú, allrahæsti! Psálm, 9.

Þó ad velgjørníngar hins miskunsama guds væru ekki svo ótcljanlegir, þó ad þeir vørudu ekki nema um vissa tíd, þó ad hans gódgirni hefdi med þessum degi enda, gætum vér þó ekki

ord fundid til ad prísa med kærleika guds verduglega. Þó nálæg stund gæfi oss ekki orsøk til ad prísa hann, mættum vér þó færa honum óendanlega lofgjørd fyrir allar umlidnar. Svo lángt, sem vér litum til baka og til hins umlidna vors lífs, finnum vér allstadar órækar røksemdir og merki uppá hans nád og velgjørninga. Vildum vér telja hans velgjørdir, mættum vér framntelja sérhvert vort ædarslag, sérhvern andardrátt, sérhvern þánka. Því þegar vér ad eins reikna vildum saman þá velgjørninga, er sérhver dagurinn, sem vér lifum, sjálfkrafa færir oss, svo sem: ljósid, loptid, fæduna, krapta til erfidis og vort líf, hversu margir yrdu þá ekki allir guds velgjørningar vid oss ad lokunum? Hversu margir þá þeir, er hann árid um kring, hvert árid eptir annad, já, allan vorn aldur, lætur falla í vort skaut? hversu ber oss ekki ad þakka alla guds velgjørninga vid oss á barnsaldrinum og hinum efri aldri? svefnsins velgjørninga? hina huldu og nádarríku forsjón, hverrar vér urdum ekki varir? endurlausnarinnar velgjørninga? O drottinn! óteljandi og óumrædileg er þín nád! ad framtelja alla þína velgjørninga, er oss syndugum og fáfródum ekki unnt; ad íhuga verduglega fjølda þinna dásemdar-verka, er eingum daudlegum gefin, þared jafnvel einglarnir mega furda

sig vid þeirra hugleidingu, dást ad og prísa þína gædsku. Vorkenntú því, líknarfulli fadir! veikleika og vanmætti vorrar sálar, og fyrirgef þú oss þad tilfinníngarleysi, ad vér ekki létum íhugun þinna velgjørda upplífga oss, sem bar, ekki leida oss til hjartanlegasta þakklætis og fúsrar hlýdni vid þín bodord! Þó vér gætum ekki upptalid alla þína margføldu nád, viljum vér þó leitast vid ad ígrunda hana, ad láta hana ætíd vera oss hugfasta, ad auglýsa hana ødrum. Þótt vér ekki nema ad nokkru leiti þekkt fáum stærd þinnar miskunnar, viljum vér þó því meira ómaki verja til ad þekkja, hversu ónógir sjálfum oss vér erum, hversu óverdugir, hversu vanmegna; þó vér getum aldrei verduglega prísad gud med ordunum, viljum vér því kappsamlegar leitast vid ad dýrka hann med voru framferdi. Þó ad vér ekki fullkomlega fáum skynjad hans miskunarríka kærleika í þessum heimi, skal oss samt því innilegar lánga eptir himninum, hvar lángtum meira af hans nádarverkum mun oss verda kunnugt, þar mun líka vor túnga fá honum súngid verdugri lofgjørd. Fáum vér ekki vegsamad hann í voru lífi, munum vér þó gjøra þad í daudanum og útgánga af heiminum med þeim lofsaungi: drottinn! hversu mikid hefur þú gjørt vid mig? En þegar vér loksins upphafdir erum til þinnar

dýrdar, eilífi gud! munum vér fullkomlega fá þekkt, hversu mikid þú hefur vid oss gjørt; þá mun vor sála prísa þig, og vor andi gledjast í þér, vor gud og vor frelsari!

## 57. Hugvekja.

Kenn mér, ó gud! sem gætir mín, gánga fram eptir bod-
um þín, ørdugar lífsins leidir! samvitskunnar þá
frid eg finn, og føgnud eilífan, drottinn minn! er
þú útvøldum greidir.

Ad lifa heilaglega og í sannri trú og gudhrædslu, leitast vid ad verda gudi þóknanlegur og honum æ líkari, þad er vor kallan, tilgángur vors lífs, vort mark og mid og vor lukka. Stunda þú því, kristinn madur! ad ná skýrri, sannfærandi og fullkominni þekkingu um skyldur þínar, hversu sérhver þeirra sé naudsynleg þér, og þar hjá ad sínu leit dýrmæt. Endurnýadu og styrktú þessa þína þekkingu tídum og brúkadu hana og æfdu í daglegu líferni; lærdu ad skilja, ad skylda þín, jafnvel sérhver hin ørdugasta, er þín lukka, vaktú því yfir þínum girndum og sinnishræringum, svo þær leidi þig ekki afvega; trúdu sjálfum þér aldrei ofvel, og prófadu daglega hjarta þitt og framferdi grandgæfilega, því sérhver dagur, sem þú lifir, er dýrmætur partur þinna lífs-stunda. Hugsadú opt og med trú-

udu hjarta til guds og Jesú, og leitadu í yfirvegun hans fullkomlegleika og verka, í hans velgjörningum, en þó einkum í þeirri endurlausn, sem hann þér afrekadi, helgustu upphvatningar og kroptugustu medala til ad lifa rádvöndu og dygdugu liferni. Finnir þú vanmætti þitt, láttú þad því framar knýja þig til heitrar bænar um hjálp hans og nád, sem lofad hefur ad láta sinn krapt verda í breyskum máttugan. Lærdú æ betur og betur ad þekkja sjálfan þig og heiminn, sem þú lifir í, og hugsadu tídum til þess, hvers vegna gud lét þig fædast og lifa á jördunni; þeinktú þar um opt, hversu líf þitt er stutt; um tign og mæti þinnar sálar og hennar ódaudlegleika. Hugsadú um dygdanna umbun og lastanna straff, sem framkoma mun, ekki einúngis í þessu lífi, heldur og hinni ókomnu eilífd; nidurþagga þú aldrei rádleggingar samvitsku þinnar, né þína innvortis blygdun yfir hinu vonda, því sú tilfinning er verndari og vaktari hins góda hjá þér; ástundadú strax frá barndómi ad hlýda rádum gódrar samvitsku, ádur enn hjarta þitt skemmist og forherdist af lastanna vana gegn því góda; sjádu til ad hafa ætíd eitthvad nytsamlegt fyri stafni. Lærdú ad takast ómak og ördugleika á hendur; því ómakslaust skedur eingin dygda æfing, eingin verskuldan, eingin lukka. Neitadu

sjálfum þér opt leyfilegra lystisemda, svo ad þú þar vid venjist á ad drottna yfir þínum tilhneigingum; fordastú umgeingni vondra, en sæktú samkvæmi rádvandra; lærdú forsjálni af þeirra dæmum og speki af undirvísun þeirrar heilögu ritningar. Gjør þetta og haltú áfram í því, þá muntú vara í dygdum, vara ad farsæld med varandi innvortis ánægju. Höfum vér þessar reglur oss ydugloga fyrir augum, munum vér smámsaman leidast og venjast á ad breyta eptir þeim, og hversu dýrmæt er þá ekki vor lukka? fáum vér henni ad eins náð, er allt feingid, sem vor ákvardan útkrefur, allt, sem vér fáum nokkurntíma óskad oss; þá getum vér lifad í rósemi og ánægju, og á sídustu stundum vors lífs, mun þessi rósemd og ánægja, sem vér nú smøkkum, þegar vér gjørum trúarørugga bæn til guds, ekki vid oss skilja. Med því stærri laungun, sem vér nú óskum oss í lífi og dauda, ad vardveita þetta hugarfar, því innilegar kvøkum vér til þín, heilagi og gódi gud og fadir! ad þú virdist ad gefa oss krapt til ad elska og ydka sanna gudhrædslu, sem veitir oss svomikinn og heilsusaman ávinníng. Endurnýa þú vor hjørtu med þínum góda anda, og gef oss þad hugarfar, sem gjøri oss í raun og veru dygduga og sannkristna. Gef ad vér sífeldt mættum verda þér sjálfum lík-

önnur enn eilíft spott og vanvirda og hrelling? vegna eigin velferdar vorrar, skal vor einlægasti ásetningur sá, á medan vér enn þá höfum tíma til yfirbótar, ad leita af alvöru nádar hjá gudi, og láta oss leida af hans kærleiksfullu vidvörunum, til ad forda oss háska þeim, sem hinum óhlutvöndu búinn er, sem uppegna sér á móti guds réttlætis reidi; þvi hvernig feingjum vér afborid hana? O gud! virdstú ad leida oss á þeim vegum, um eydimörk þessa lífs, sem leida til þíns sælufulla himins; vertú æ vor leidtogi í lífinu, svo vér fyrir þína nádarríku adstod, ad lokunum lenda fáum í þeim farsældar heimkynnum, hvar útvaldir gledjast af þeim sælufullu verdlaunum, sem þar eru fyrirbúin þeim, er þig elska. O herra Jesú! leid þú oss jafnan med ordi þínu og anda til þessarar farsældar! ó Jesú! gef oss þann sóma!

## 72. Hugvekja.

Þú, hinn mikli og voldugi gud! Drottinn Zebaoth er þitt nafn, þú ert mikill í rádum og máttugur í athöfnum. Jer. 32.

Þared vér erum svo óframmsýnir til ad sjá víslega fyrir högum vorum, en kraptar vorir reynast svo veikir til ad efla vora lukku, er þad ekki lítilvæg huggun fyrir oss, ad gud, undir hvers stjórnun vér stöndum og í hvers valdi er

ad bæta allar vorar þarfir, er svo mikill í ráðum og máttugur í athøfnum. Vér vitum ekki hvað oss mæta muni á næsta deigi, jafnvel ekki á næsta tíma; en hann, sem niðurraðað hefur og ákvarðað fyrirfram sérhverrar manneskju tilfelli, og fyrirhugað þeirra lukkukjør, hann sér ekki einúngis fyrir, hvað á næsta tíma og morgundeigi muni adbera, heldur er einnig augljóst og nakið fyrir hans alskygna auga, allt sem í voru gjørvalla lifi mun oss mæta; og svo ráðþrota, sem vér einatt verðum, þegar vér viljum forsjállega sjá fyrir lukku vorri, svo kroptug eru hans ráð, sem hjálpa oss eins opt í vandræðum þeim, sem afla oss áhyggju og ángistar kvíða. Þar eð vér erum nú svo fullkomlega sannfærðir hér um, því erum vér þá svo fásinna, að láta vort blindaða hugskot og hjartans tilhneigíngar ráða vorum fyrirtækjum? því felum vér þá ekki allt vort ráð og áform á vald guðs óendanlegu speki og stjórnun, þar eð ályktanir hans ráðs einar eru vísar og sáluhjálplegar fyrir oss? ef að vér ætíð breyttum þannig og vendum oss á, að vera ánægdir með þessa føðurs vors vísa og náðuga vilja, mundum vér síður orsøk hafa til að ángrast eptirá yfir vorum fyrirtækjum. Kvíðalausir mundum vér renna augunum

fram til hinna ókomnu tímanna, ef vér med gaumgæfni íhugudum, ad sá gud, sem ákvardad hefur oss til handa allt þad, sem framkoma mun á komandi tímanum, er mikill í rádum og máttugur í athöfnum. Þessi fullvissa leidi oss frá þeirri fásinnu, ad trúa betur vanvitsku vorri enn guds óendanlega vísdómi; frá því, ad treysta framar vanmætti voru enn almætti hans, sem øllu megnar. Otølulegar røksemdir sannfæra oss um þad, hversu vís, hve máttugur, hve gædskuríkur gud er, sem vidheldur lífi voru. Aldrei skal fávitska vor gjøra lítid úr vísdómi hans, né treysta vanmegni voru jafnt og hans almætti; med verdskuldudu þakklæti skulum vér vidurkenna hans gódgirni; fyrir guds alvísa augliti viljum vér lítillækka oss og gefa honum dýrdina fyrir allt þad góda, sem hann audsýnir oss. Þegar vér þannig førum ad rádi voru, vogum vér ad vænta oss blessunar guds og lífsins ánægju og farsældar. O gud! gef þú oss þessa lukku, og kenn oss æ betur og betur ad þekkja vanmætti vort og fáfrædi. Láttú oss aldrei dýrfast ad framkoma fyrir þitt alsjáanda auga med drambsømu og stærilátu hjarta, sem í nokkru stóli uppá sig, heldur þekkja og vidurkenna, ad vér æ séum veikar og hjálparlausar skepnur, sem í øllu komnar erum uppá þína miskun og nád. Hvergi, nema

frá þér, voldugi guð! væntum vér aðstoðar og hjálpar, þegar oss liggur á, en þegar vér þannig felum oss á þitt vald með auðmýktarfullu og einlægu hjarta, láttú oss þá ætíð finna hjá þér ráð og krapt. Auðsýn þig gjörvallri kristni þinni, sem hennar trúfasta ráðgjafa og hjálparmann, og frelsaðu øll þín børn af þeim vandræðum, sem nú eða héðan af kynnu að mæta þeim. Gjör að eingu ráðabrugg hinna óguðlegu, en heyrðu óskir ráðvandra; þegar vér erum efablandnir og ráðþrota í voru áformi og fyrirtækjum, gef oss þá vísdóm til að þekkja og velja það bezta, og krapta til að framkvæma það. Lát oss í øllu, sem vér gjørum, tølum eða hugsum, hafa þinn vilja oss fyrir augum og breyta eptir honum í øllu; þitt undarlega og dýrðlega ráð, leiði oss farsællega í gegnum alla mæðu þessa lífs og mótlætingar, og að lokunum inn í annars betra heims vistarveru, hvar vér með gleðisaungum dýrkum þig og syngjum: mikli og sterki guð? Drottinn Zebaoth er þitt nafn, þú ert mikill í ráðum og mektugur í athøfnum!

## 73. Hugvekja.

Það port er þraungt, og sá vegur er mjór, sem til lífsins leiðir, og þeir eru fáir, sem rata hann. Matth. 7.

Ekki verður því neitað, að mørg er mæða og

margfaldur ørdugleikinn, sem oss mætir á fyri-settum vegi í gegnum heim þenna til himinsins. Vegurinn, sem vér gánga skulum er yfrid mjór og portid þraungt, sem vér eigum ad fara; en — hversu ørdug og mædusøm, sem gánga þessi mætti finnast oss, er þad þó skylda vor ad velja þenna veiginn, en ekki láta þær þrautir, sem á honum kynnu mæta, fæla oss af honum. Þad er ad sønnu satt, væru þessar þrautir óyfirvinn-anlegar, og ef vér búast hlytum vid óteljandi þjáningum og endalausu mótlæti, mætti þad verda ørvílnunar efni fyrir oss, en vér høfum, eptir nærverandi ástandi voru, nóg medøl í høndum til þess, ad vegurinn verdi oss greidfarnari, strídid gedfeldara, sem vér á honum heia hljótum, og heillafull von þess, er vidtekur, þegar veiginn þrýtur, gjørir allt léttbærara. Satt er þad, ad vegur þessi er mjøg ógreidur, en endir vegarins, ef vér til hans lítum, er því vegsamlegri. Øfl-ugir eru óvinir þeir, sem vér eigum hér vid ad strída, en hinn, sem med oss er, er lángtum øfl-ugri; veikir eru vorir kraptar, en Jesú máttur yfirgnæfir vort vanmegni. Þared vér høfum nú þvílíka upphvatníngu og hugarstyrkíngu, væri þad ekkert afsøkunarmál fyrir oss, ad klaga yfir krist-indómsins ørdugleika; vér viljum því á oss taka þetta heilnæma ok, og bera þessa léttu byrdi.

Allra Jesú sönnu stríðsmanna dæmi skulu hér til upphvetja oss; þeir hafa margir mátt reyna alla þá mæðu, sem kristindómurinn olla kann, og þegar vér samanberum vorar léttu þjáningar við þrautir þær, sem þeir liða hlutu, hversu lítið eru þá ekki vorar að reikna á móti þeirra; hverki píslir né pintingar höfum vér liðið fyrir Jesú sakir; hverki höfum vér hans vegna þurft að afneita ríkdómi, metorðum né velgeingni; en allt þetta og þaðan af meira hlutu þeir fyrstu evangelii játendur að líða, skyldum vér þá ekki þola vilja litla mæðu, eða stutt og léttbært stríð? já, hvað enn þá er meira, hlaut ekki Jesús sjálfur að þola svo mikið, áður enn hann inngánga fékk í sína dýrð? allt frá fæðingu hans til dauðans, var hans líf fullt mæðu, fullt erfiðis og sorgar; ættum vér þá ekki að vilja líkjast honum einnig í þessu? fjærri sé það oss að skora oss undan að bergja á líkum kaleik og hann! vér höfum nú fyrir augsýn guðs tekið fyrir oss þann ásetning að umbera allan örðugleika, sem kristið líferni útheimta kann, að krossfesta vort hold með þess girndum og lystingum í öllu, að eptirfylgja Jesú án möglunar, og fúsir að taka þeim mótlætingum, sem hann vill á oss leggja; ekki skal neitt bágt eða óþægilegt á vorri pílagríms reisu hræða oss frá, að framgánga á þeim veigi, sem oss er

fyrisettur; nóga endurnæringu munum vér finna, þegar vér med rádvendni kostum kapps um ad vardveita skyldur vorar; vér felum oss því á hendur þinni styrkjandi og helgandi nád, miskunsami gud! án hverrar vort áform mun ad eingu verda; efl þú oss í stridinu vid syndina, ad vér ekki látum oss lokka af dæmum og adferd hinna ógudlegu; gef oss þann vísdóm, ad vér ekki látum oss ginna af lastanna útvortis skini né 'vellystinganna tillokkunum. Hjálpa oss ad gánga hugudum fram á gudhrædslunnar veigi, og loksins ad ná því takmarki, sem endar alla vora mædu, umbunar alla vora fyrirhøfn. Hversu rósamir munum vér þá ekki renna augunum til ens umlidna og skoda allan þann ordugleika, sem vér høfum yfirunnid! hversu kroptuglega munum vér þá ekki sannfærast þar um, ad mjói stigurinn, sem vér framgaungum á, var sá bezti og beinasti fyrir oss til ens eilífa lífs! hversu ástúdlega munum vér þá ekki þakka þér, ad þú leiddir oss um hann til vorrar eilífu farsældar!

## 74. Hugvekja.

Hverr er eg?

Það er sú spurning, sem vér, hver í sinn stad, daglega gjøra ættum sjáfum oss, því hver, sem aldrei gaumgæfir sitt ástand, eda hvert hann taki

framførum nokkrum á dygdanna veigi ellegar forherdist í løstum, er næsta illa farinn; en ef vér stíngum nú hendinni í vorn eiginn barm og rennum þaunkunum til sjálfra vor, má efalaust margur af oss játa: ad allt til þessa dags, høfum vér aldrei med réttri eptirtekt íhugad þetta efni eda sønnu svarad uppá spurníngu þessa; vér høfum svo leingi eydt lífstundum vorum í heiminum, án þess ad hafa lagt alúd nokkra á ad lifa samkvæmt vorri ákvordun, guds ordi og skynseminni. Látum þad nú nóg vera, ad vér híngad til eydt høfum svo mørgum stundum í þvílíkri vanvitsku, rétt eins og draumi; þessa stund skulum vér nota til ad yfirvega med athygli tilveru vora, hvad vér séum og til hvers skapadir. Af sjálfum oss urdum vér ekki til, guds almætti myndadi oss í upphafi og gaf oss þá veru, sem vér høfum. Frá honum komu allir þeir fullkomlegleikar, er sálu vorri og líkhama veittust, en í hans valdi er ad taka þá aptur, þegar hann vill. Vor líkhami er af jørdu myndadur, af jørdunni nærist hann, en verdur loks rotnadur ad jørdu aptur. Nem því hér um augnablik stadar, kristni madur! hugleid, hvert þú hafir orsøk til ad stæra þig af líkhama útliti þínu, ellegar upphrokast yfir adra. Sú smekkbetri fæda, sem þú máske nýtur og þau skrautlegri klædi, sem

þú máske bera kannt framyfir adra, gjøra þig eingu dýrmætari enn þú í raun réttri ert; vér erum allir áþekkir þvi, sem vér daglega undir fótum trodum, dupt af dupti, og jørd af jørdu, en vér erum þar ad auki andi, og þó þeim ó-endanlega anda, hvers líking vér vera áttum, næsta ólíkir ordnir; yfrid lítid hefur skynsemi vor til ad bera af visdómi þeim, sem honum var í øndverdu meddeildur; viljinn hefur heldur ekkert eptir af sakleysi þvi og heilagleika, sem hann var prýddur med, og tilhneigíngarnar gánga hjá oss svo frekt út yfir tilhlýdileg takmørk, ad þar vid eydist sálarinnar rósemi. Sá alvaldi yfirherra, sem skapadi manneskjurnar, setti oss til þess í heiminn, ad framkvæma skyldum þad verk, er hann ákvardad hafdi sérhverjum af oss; en þetta fyrisetta verk verdur, þvi midur, af ofmørgum forsómad, eda ad minnsta kosti gjørt verr enn vera ætti. Þad mun loksins sérhver af oss sanna meiga, þegar ad reikníngsskapar tímanum kemur, en herrann á óvæntri stundu kallar oss burtu hédan, og sá alvísi dómari útbýtir einum og sér-hverjum umbun eda straffi eptir þvi sem einn og sérhver, á medan hann lifdi hér í heimi, hafdi tilunnid; þá mun þad ad lokunum auglýsast, ad vér eingannveiginn gjørdum þad, sem oss bar. Svo órósama, sem þessar hugleidingar mættu nú

gjøra oss, svo rólega og friðstillta gjörir oss aptur sú yfirvegan, að vér séum kristnir, sem eigum von á að verða ekki dæmdir eptir strángasta rétti, fyrst vér af Jesú erum endurleystir, sem ekki einúngis bætti fyrir vorn ófullkomlegleika og afbrot vor, heldur útvegaði oss hylli guðs og rétt til að heita hans børn, sem meiga gleðja sig hér í tímanum við þá sælu von, að oðlast á síðan hlutdeild í eilífri farsæld, þegar vér ástundum að lifa hér, sem kristnir. Veri þar fyrir sú alvarlegasta ástundan vor að lifa svo, sem kristnum sómir, efla guðs dýrð og farsæld vorra meðbræðra, undir eins og vora eigin, að svo miklu leýti oss er mögulegt. Með þvílíkum lifernis- og þeinkíngarhætti mun sérhver af oss efalaust smakka þá lífs heill og ánægju, sem hann aldrei áður þekkti. Með rósamri gleði skiljum vér þá við lífið, þegar dauðinn kallar, því samvitskan ber oss þá vitni, að vér af alvøru høfum lagt stund á að framkvæma í lífinu vort fyrisetta verk, en guðs andi mun þá sálina gleðja með von dýrmætustu umbuna. Í blessaðri endurminníngu verður þá vort nafn og minníng á jørðunni, en vor fögnuður í eilífðinni óútmálanlegri enn nokkrum hér hafði í huga komið.

# 75. Hugvekja.

Dragdú ekki undan ad snúa þér til drottins, slá því ekki á frest frá einum degi til annars, því reidi drottins mun hastarlega koma og yfirfalla þig á hefndarinnar degi. Sýr. 5.

Í eingu efni er undandráttur hættulegri enn í voru ydrunarverki; margföld høfum vér dæmi haft, sem sannfæra um þad, og eilífdin mun á sídan sýna oss enn fleiri óttaleg þeirra, sem burtrýktust ádur enn byrja vildu yfirbót, þared þeir táldrógu sjálfa sig, ad þeir enn þá mundu fyrir høndum eiga lánga lífdaga, en nádu þó ekki þeim tíma, sem brúka skyldi til betrunar; sjáum vér þá ekki í huganum vora ímynd á þessum ólukkulegu? því er midur! vér meigum vidurkenna: ad vér híngad til høfum verid allteins hyrdulausir um vora yfirbót. Guds lánglundargedi meigum vér þakka, ad oss þegar ekki er burtu kippt mitt í voru andvaralausa og dofna ástandi. Vér sjáum þá háskasemd, sem vér stofnum oss í, med því ad draga undan vora yfirbót. Vidurkenna meigum vér fásinnu vora í því, ad gjøra oss vissa von um ár og daga, þar sem vér varla meigum reida oss uppá ad lifa næsta augnablik. Vid svo margar upphvatníngar til ydrunar, hugsudum vér ósjaldan líkt Felix: í annad sinn, þeg-

ar eg sæ tóm, vil eg snúa mér; en af hverju vitum vér, ad oss í annad sinn muni betur farnast? festa ekki lestirnir þess meiri rætur, því leingur, sem þeir æfdir eru? forherdumst vér ekki æ meir og meir vid syndsamlegan vana í løstunum, og verdum um leid því meir frábitnir því góda, og hver hefur sagt oss, ad vér lifad fáum þann tíma, ad vér tekid fáum sinna skipti? mun ekki daudinn geta rykt oss óvørum í einu vetfángi burtu? máske og ádur enn nokkur sjúkdómur bodi hans nálægd? hvad fullvissar oss um, ad gud enn vilji láta oss heyra sína nádarrødd, hverja vér svo opt høfum forsmád? og hvernig meigum vér vænta þess, ad heilagur andi enn þá hér eptir vilji klappa á dyr vors hjarta, eptir þad vér svo þráfaldlega høfum neitad honum inngaungu? nei, aldrei skulum vér framar vera svo fásinna, ad treista á svo óvíst; þetta augnablik, um hvert vér med vissu sagt getum: ad þad sé vort, skulum vér endurkaupa; á kvøldstundu þessari viljum vér nú heyra þá røddu vors guds, sem kallar oss til apturhvarfs; hver veit, nema vér í nótt eda med morgundeginum fáum þá skelfandi røddu ad heyra; manneskja! þú skalt deyja og ekki lifa! æ! látum oss þá álita oss svo sem þegar deyjandi, er vænta meigum daudans á hverri stundu og þad nú framkvæma, sem vér

vildum láta oss hugfastast, þegar vér á banasænginni liggjum fyrir dauðanum; látum oss auðmýkja oss fyrir guði, undir eins og vér vogum að tileinka oss Jesú réttlæti, sem í dauðanum verða skal vor einka huggun og styrkur! látum oss fela vora sálu þeim guði á vald, í hvers höndum vér óskum henni að hvíla þegar hún skilst við líkhamann! látum oss stríða á móti þeim girndum, sem gjöra mundu oss samvitskunnar áklaganir þúngbærar í helsóttinni, ef vér létum sigrast af þeim. O guð! þú, sem nú vekur þessa þánka í hjarta voru, þú, sem nú minnir oss á þessa svo nauðsynlegu forsjálni, gefðú oss krapta og stöðuglyndi til að framkvæma þetta, sem vér ásetjum nú; kenn oss að endurkaupa tíðina og ætíð minnast þess, hversu dýrmætt, en þar hjá fallvalt og óðfluga vort líf er, svo vér verða mættum eilíflega sáluhólpnir.

## 76. Hugvekja.

Gángið í elskunni eins og Jesús Kristur hefur oss elskað, og sig sjálfan útgefið fyrir oss, til fórnfæringar og offurs guði. Eph. 5.

Ef vér hugleiða vildum, hversu óumræðileg sú elska var, með hverri Jesús, guðs eingetinn sonur, elskaði oss syndugu menn, þá mundum vér finna það, að um ekkert ætti oss fremur annt að

vera, enn ad hjá oss mætti aptur á mót vekjast sá heitasti og hreinasti kærleiki til hans, því heldur, sem það er ekki einúngis vor skylda að elska vorn Jesúm af gjörvöllu hjarta, heldur er líka vor sanna lukka undir því komin, bædi um tíma og eilífd, að vér lifum og deyjum í elskunni til Jesú. Hversu mikid er það ekki, sem Jesús, bædi med sínu lífi og dauda hefur fyrir oss gjört, svo að vér skyldum elska hann? eda, hvað getum vér ímyndad oss að hann frekar gjöra mætti fyrir vorar sakir heldur enn hann gjört hefur til þess, að lada til sín vora hjartans ást? gat hann lidið meira enn þann smánarlegasta og kvalafyllsta dauda, til þess að afreka oss eilífa sáluhjálp? hverja órækari sannfæringu mátti hann gefa oss um það, hversu heitt hann oss elskadi, heldur enn þá, að hann, oss til góda, tók á sig forsmán í stað sinnar eilífu dýrdar; eymd og volædi, í stað guddómlegrar sælu; örbyrgd fyrir ríkdóm, dauda fyrir líf? hversu hart, grimmt og tilfinningarlaust er þá ekki þess hjarta, sem ekki vill elska þenna vorn Jesúm aptur á móti fyrir þvílíkan kærleika! ó! vor elskuríki Jesú! styrk oss sjálfur í elskunni til þín, að hún mætti verda svo sterk, að einginn hlutur megni að skilja oss vid þinn kærleika. O! vér hljótum, vér viljum elska þig, svo að bædi líf vort og daudi vitni

um vorn kærleika til þín, þér viljum vér lifa, ó Jesú! án þess ad elska þig, er alls einga sanna ánægju ad finna i þessu lifi; hvergi er oss audid huggun edur hæli ad fá i þreyngingum, mædu og mótlæti þessa lifs, ef ad oss ekki audnast ad vera i nád hjá þér, og vita oss undir þinni mildiriku stjórnun. Sannfær oss æ betur og betur um þá sælu, sem sérhver þinn trúr þjón og barn á i vændum. Þegar vort hjarta vill leida oss afvega til ad hlýdnast heimsins tælandi girndum, lát oss þá hugleida, hversu viljugur þú hafir synjad sjálfum þér jardneskrar gledi og þar med skuldbundid oss til ad afneita heiminum, en eptirfylgja þér. Ef vér rotum i þá villu og ólukku ad lifa i syndunum, minntú oss þá á píningar þær, sem syndir vorar bøkudu þér, svo vér þar vid leidast mættum til ad fordast syndina. Ef ad vér teljumst undan ad bera þann litla mótlætis skerf, sem þú hefur oss útmælt, set oss þá kroptuglega fyrir sjónir þá pinu og sjálfsafneitun, þann kross og dauda, sem þú undirgekkst fyrir vorar sakir; þinn kærleiki uppfylli allt vort hjarta, stjórni voru liferni og veri loksins vor huggun i daudanum; þvi hver dauddagi er sáluhjálplegri enn sá, þegar oss audnast mætti ad deya i þinum kærleika, ó Jesú! Í honum og þinni sameiningu finnum vér ómrædilegan sætleika, sem

lángt yfirgeingur allan daudans biturleika. Þad skal þar fyrir vera vor stadfasti ásetningur svo ad lifa, ad vér deyjandi mættum vera þínir; vér viljum því slíta oss frá øllu, sem taka má vort hjarta til fánga. Mátalausa elsku til ens jardneska viljum vér úr hjartanu uppræta, en ekkert nema þig, krossfesti og upp aptur risni Jesú! af gjørvallri sálu elska; eins þá, er vér í daudanum ekki fáum leingur þeinkt um nokkurn hlut, skulu þó allar vorar hugrenningar hjá þér sídast stadar nema, en þá vér gaungum út frá heimi þessum med þeirri huggun, ad vér deyjum í þér, munum vér efalaust inngánga í betra heim, med þeirri øruggu von ad meiga eilíflega med þér lifa. O! hvílíkur þánki er þetta: eilíflega ad lifa þér, herra Jesú! Hér í heimi fáum vér oldúngis ekki skilid, hversu mikils þetta er vert, en þegar vér innfluttir erum í vort eptirþreyda fødurland, munum vér ad fullu reyna og skilja, hversu sæl sú sála er, sem lifir þér.

## 77. Hugvekja.

Nád sé med øllum þeim, sem elska drottinn vorn Jesúm Krist einlæglega. Eph. 6.

Yfirvega þú, sála mín! med gaumgæfni og undrun kærleika frelsara þíns. Gakktú til Bethlehem, skodadú hann, sem er ljómi guds dýrdar, í þén-

ara mynd, í eymdum og þreyngingum. Fylgdú honum fet fyrir fet í gegnum hans lærdómsríka líf hér á jørdunni. Sjádú hans gódgjarna kærleika, med hverjum hann læknadi sjúka, styrkti veika, hughreysti auma og tók syndara til nádar. Sjádú hvernig hann, sem þó auglýsti svo mikinn mannkærleika, var af mønnum ofsóktur, smádur, hæddur og, svo saklaust og heilagt hans framferdi var, þó kvalinn og píndur. Gakk þú á eptir honum inní Gethsemane aldingard og horfdú á strídid, er hann þar hlaut ad útstanda, sjádú erfídid, sem hann þoldi, sjádú tárin, sem hann feldi, teldú andvørpin, sem hann stundi fram, skodadu blódsveitann, sem hann úthellti, yfirvegadú þá bæn, sem hann þar gjørdi til síns himneska fødurs og hugleiddú med háleitri undrun þá hlýdni, med hverri hann leggur sig undir vilja síns fødurs. Haltú enn áfram, og far med honum uppá fjallid Golgatha, stattú kyrr þar, á skodunar plássi alls þess mesta, er guddómurinn nokkurntíma gjørt hefur, og sjádú þad undrunarverdasta, sem kærleiki nokkurntíma hefur framkvæmt; sjádú þenna Jesú, síns fødurs sønnu ímynd, sjádú hvar hann hékk nakinn á trénu, á medal tveggja mordingja, í gegnum stúnginn med nøglum og af bødlum umkríngdan; en — sjádú, hvernig hann styrkist af elskunni í svo mørgum

pínslum, hvernig elskan þrýsti honum til ad leggja sig undir þessar kvalir og hrærdi hann til ad umbera þær þolinmódlega. Sjádú hvernig hann tæmdi kvalanna bitrasta kaleik, og var eins fús ad deyja fyri sína óvini, og fyrir þá ad taka á sig manndóm. Hvernig er þad mögulegt, ad þú, sála mín! hrærist ekki vid sjón þessa? hvernig er þad mögulegt þér falli þad ördugt, ad taka þann ásetning fyrir þig, ad elska þinn Jesúm aptur á móti, þegar þú hugleidir þvílíkan kærleika, og þad er þó allt, sem þinn píndi velgjörari krefur af þér, ad þú aptur á mót elskir sig. En hver kærleiki getur ordid nógu sterkur, nógu brennandi til þess, ad þú med honum fáir endurgoldid þad óútmálanlega góda, sem hann hefur gjört þér? ad sönnu er þad þér ekki mögulegt, ad elska hann eins heitt, og hann hefur þig elskad, en hann krefur einúngis af þér einlægan kærleika, jafnvel þó hann veikur sé. Kom þá, sála mín! og offra honum allri þinni eptirlaungun, allri þinni von og öllum þínum óskum! ad elska hann æ meir og meir med sífelt varandi öruggu trausti, ad trúa á hann, og med einlægu, rávondu og audsveipnu hjartalagi, ad leggja þig æ viljugri og viljugri á hans vald, þetta skal vera þín innileg ósk, sem þú leitist vid ad uppfylla. Syndú því í daglegu framferdi þínu verkanir þess kærleika,

sem þú ber til lausnara þíns. Hugsadú opt um, þad, hversu heit sú elska var, er hann til þín bar; spyr sjálfa þig: hvort eitt edur annad fyritæki, sem þú áformar, ellegar synd, er þér kemur í hug ad drýgja, standast meigi med kærleika þeim, er þú ert þínum frelsara skyldug ad sýna? gleym því aldrei, ad øll sú lukka og blessan, sem þú nýtur á sérhverjum degi þíns lífs, helgast af því dýrmæta offri, sem þinn endurlausnari frambar þann dag, er hann fyrir þig píndur var. Þetta uppveki og þrýsti þér til á sérhverju augnabliki þíns lífs, ad renna augunum til Jesú kærleika, og med þakklæti ad minnast hans pínu og dauda.

## 78. Hugvekja.

Allt mitt ráð til guðs eg set, á mér sinn vilja verda lét,
mér bid eg hans miskun hlífi; heilsa, vit, líf, sál,
heidur, fé, hans vernd jafnan befalad sé, nú og í
eilífu lífi.

Á medan vér erum á vegferdar reisunni, sem oss er ákvørdud í gegnum líf þetta, er vissulega eingin lukka meiri enn sú, ad vera þess fullviss, ad vér sífelt framgaungum undir umsjón og nákvæmri varatekt þess guds, sem er óendanlega máttugur og miskunsamur; þad skal því vera vor eilíf gledi, ad halda oss til hans og setja á

hann vort gjørvalla trúnadartraust; eda því skyld-
um vér hata svo eigin velferd vora, ad treysta á
skepnurnar, sem eru eins vanmáttugar og vanvita
og vér sjálfir erum? nei, drottinn er vor frels-
ari, hann er vor leidtogi, hann er vor verndari;
hans óendanlegi visdómur sér og þekkir allar
þær háskasemdir, sem lífi voru eru búnar, hans
almætti getur verndad oss í allri neyd og sér-
hverri, jafnvel mestu hættu. Gædska hans er si-
felt reidubúin til adstodar, og synjar oss aldrei
hjálpar í nokkurri neyd. Þetta høfum vér sjálfir
svo margopt reynt á vorum umlidnu lífsstund-
um; þegar einginn madur né nokkur mannleg
hjálp gat oss minnstu bjørg veitt, var hans hjálp
oss nálæg, og þegar einginn heyrdi þær sáru
klaganir, sem vér í einrúmi leynilega frambárum
af sorgbitnu hjarta, stód hans miskunar-eyra opid
fyrir vorum kveinstøfum, hann taldi vor tár,
heyrdi vora grátbeidni; og því skyldum vér þá ekki
trúa á hann, og vona til hans miskunar á vor-
um ókomnu æfidøgum? sífelt á medan vér lif-
um í heimi þessum, erum vér umkríngdir af
háskasemdum, og hverr veit hvad oss í nótt eda
á næsta degi mæta muni. Vér viljum eingu
kvída, en afhenda oss á vald vors guds visu og
almáttugu forsjónar, hann mun fyrisjá hættu þá,
sem yfirvofir, og útrykkja oss af neydinni med

sínum voldugа armi. Í vanvitsku vorri er vor huggun sú, ad gud sjálfur er vor frædari, sem kennir oss þann mikilvægasta lærdóm, sem er: ad óttast hann. Miskunarríki gud! vér felum vort hjarta þér á vald, gjør þad sjálfum þér þóknanlegt, upplýs vorn skilning, helga vorn vilja og vardveit vora gjørvalla sálu óstraffanlega til þíns opinberunardags! en vér veik og hrasandi børn þín sjáum svo marga afvegu fyrir oss, sem leida kunna oss frá þér, margar villigøtur, á hverjar vér ráfa kunnum af réttum vegi; kenn oss því ad þekkja alla afvegu, allar tálsnørur, sem gjøra kunna oss ólukkulega, og vardveittu vora fótstigu, ad vér ekki hrosum; kom vorum veikleika til hjálpar og vidhaltú oss á þeim sáluhjálplega vegi, sem leidir til himinsins. Þitt auga, ó gud allrar gædsku! líti í nád nidur til vor aumra á þessari stundu; þú hefur leitt oss inn í heim þenna, þín náduga forsjón leidi oss því á réttum vegi um heiminn. Snú ekki augliti þínu frá oss, þegar vér bidjum þig, en gef oss, fyrir vors frelsara Jesú sakir, allt þad, sem þú sér oss nytsamlegt; jafnvel mótlætingum viljum vér gladir vel taka frá þinni hendi. Styrk oss med þinni hjálp og gled vort hjarta med þinni huggun. Þinni nádugu stjórnun felum vér á hendur, ó vor gud! vort gjørvalla líf; yfirgefdú oss

ekki og tak ekki þína náðarhönd frá oss, vor guð og vor heilsugjafari! Amen!

## 79. Hugvekja.

Ekki að eg hafi það þegar höndlað, eður sé þegar fullkominn, eg stunda þar eptir, hvert að eg gæti það einnig höndlað, eins og eg er af Kristi höndlaður. Phil. 3.

Þegar vér, eptir erfiði daganna hvílumst á nóttum og njótum svefnsins endurnæringar, erum vér eins og dauðir án tilfinningar og aðgætslu þeirra háskasemda sem þá auðveldlega kynnu nálægjast og yfirfalla oss. Þetta ástand vort er næsta sorgleg afmálan þess tilfinningar- og aðgjörða-leysis, í hverju sála vor eyðir tíð sinni. Tilfinningarlausir erum vér við svo marga velgjörninga, sem vor góði guð lætur oss njóta, svo að hvorki hans typtanir né bendingar fá oss vakið af vorum andvaraleysis svefni; dofnir erum vér til að gjöra það góða, og afskiptalausir um þær háskasemdir og hindranir, sem tálma oss í guðhræðslunnar og dygðanna framförum. Vér gaungum fram likt og hálfsofandi og í draumi, umhyggjulausir fyrir því sem oss mæta kann, án þess vér aðgætum, hvað um vorrar ódauðlegu sálar velferð líða muni. Í þvílíku ástandi hefur máske margur af oss nú leingi lifað æfi

finnar, og þannig, svo ad sega, sofid mørg ár burt. Mál er því fyrir oss ordid ad vakna loksins af þessum hættulega værdar dúr, og láta guds ord og skynsemi vora leida oss til ad gegna þessum gudlegu upphvatningum, til adgætslu velferdar vorrar. Láttú því, sála min! guds røddu, sem til þín talar í hjarta þínu, hafa þá verkun, ad þú ekki einúngis heyrir, heldur og framfylgir þeim hræringum, er þú finnur guds anda hjá þér verka. Vaknadu því ekki ad eins um stund, heldur varast þú ad falla aptur í sama andvaraleysis svefn; láttú þér nægja, ad þú hingad til hefur sofid burt þín beztu ár. Vertú nú árvøkur, og tak vara á sérhverri skyldu þeirri, sem gud af þér krefur. Svo opt hefur gud ad undanførnu til þín hrópad: vakna þú, sem sefur, og rís upp af dauda! heyr nú á þessari stundu þessa røddu, sem krefur af þér, ad gefa gætur ad þinni velferd. Gættú ad, hversu margar háskasemdir þig umkríngja, í hverjar leti þín og svefn kann audveldlega ad varpa þér. Sérhverr dagur þinnar æfi, sérhverr tími þíns lífs, bjóda þér út í nýa orustu; vak því og strid, svo þú missir ekki þá kórónu, sem þér er heitin ad stridslokunum eptir unninn sigur; eda meinar þú ekki, ad endurminning þinna, í andvaraleysis svefni, eyddu lífsstunda, muni loksins sárlega kvelja þig,

ef þú lætur þig ekki vekja, ádur enn sídasti dauda svefn apturlýkur þín augu? hugsa æ til þessa á hverju kvøldi ádur enn útaf sofnar, og lát þá tilhugsun þrýsta þér til ad bera umhyggju fyrir þinni eilifu velferd, ádur enn þú lykur þínum augum. En hvernig fáum vér þessu orkad, nema þú, vor gud! hjálpir og styrkir oss? eins og vor líkhami á morgnana verdur ad njóta þín ad til ad fá borid sig og vidhaldist á hverjum degi, allteins, og ekki midur, þarf sála vor þinnar hjálpar, bædi til ad uppvakna af syndanna svefni og líka til ad haldast sífelt vakandi. Æ! miskuna þig yfir oss, miskunarríki gud! þú þekkir og sér hversu daufir, latir, kaldsinna og duglausir vér erum til alls góds. Upplifga þvi med þínum anda vort hjarta og upphvet vora sálu til ad brúka forsjállega sérhverm þann tíma, sem þú unnir oss. Gjør oss adgætna um háskasemdir þær, sem sálu vorri eru búnar og eptirtektasama um miskun þína vid oss, fúsa til ad gjøra hid góda og áhyggjusama ad forsóma eingin þau tækifæri, sem þú gefur oss til ad taka vara á frelsi vorrar sálar. Leidi þá, ó vor gódi fadir! sálu vora til yfirbótar, þitt ord, þínir velgjorningar, þínar typtanir, þín þolinmædi og þín vægd vid oss! aldrei viljum vér hédanaf strída gegn þvilíkum upphvatningum, aldrei hédanaf láta þína

náð til forgefins við oss framkoma. En ef að vér skyldum rata í þá ógæfu, að andvaraleysi og syndanna svefn sigi að oss á ný, veki oss þá af honum þín náðar raust, svo vér ekki út af sofnum til ens eilífa dauða, heldur øðlast mættum það eilífa líf, sem er þín náðargjöf fyrir Jesúm Krist vorn endurlausnara. Amen!

## 80. Hugvekja.

Þegar þú kallar, mun drottinn svara þér, þegar þú hrópar, mun hann segja: sjá! hér em eg. Esa. 58.

Vér værum vissulega hinir óþakklátustu af øllum skepnum guðs, ef vér framar þjóna vildum syndinni, þar eð Jesús er fyrir hana dáinn; með þesshàttar aðferð forsmáðum vér guðs náð, afneituðum guði og vanvirðtum vorn frelsara, já, vér egndum þar með á ný yfir oss guðs straungu reiði. Eilíflega skal lángt frá oss þvílíkt óþakklæti, þvílík skelfileg vonðska á móti vors frelsara þægilegu upphvatningum og ástúðlegu løðunum skulu ekki leingur forherða vort hjarta. Af allri sálu og með kærleiksfullu hjarta, skulum vér þakklátlega viðurkenna allt það góða, sem hann hefur oss gjørt; með sífeldri æfingu í dygðunum skulum vér leitast við að feta í hans fótspor, sem þitt dygðadæmi hefur oss til eptirbreyt-

ingar eptirlátið. Sína bitru pínu hefur hann að sönnu fyrir oss liðið, svo sem straff vorra synda, en með henni hefur hann jafnframt gefið oss þvílíkt dæmi uppá þær æðstu dygðir, að þess líki aldrei fyrr né síðar fundist hefur, og þetta Jesú dygðadæmi í hans píslum skal æ vera oss munstur í voru líferni. Að kappkosta, að líkjast honum æ meir og meir, er því eins fullkomin skylda vor, og hitt er vor huggun og sáluhjálp, að hann með því, sem hann leið vor vegna, keypti oss með svo dýru verði. Frá því að eptirfylgja þessu vors frelsara dæmi, ættum vér ekkert að láta oss fæla, hvorki heimsins óþakklæti, háð né forsmán; allt eins og hann, eigum vér hógværð að sýna vorum ofsóknarmönnum, þögn og meðaumkun þeim, sem hæða oss, þolinmæði þeim, sem gjöra oss órétt til; ástunda sakleysi, þegar vér erum baktalaðir, og biðja: Faðir! fyrirgef þeim, því þeir vita ekki hvað þeir gjöra; eins og hann eigum vér viljugir að leggja oss undir það, sem vor himneski faðir vill vera láta, og leitast við að verða bræðrum vorum til upphvatningar, gagns og nota; eins og hann, með ljúfu geði líða hvað meðþarf til almennings heilla. Sjái vor himneski faðir þörf á að brúka harðar typtanir til undirbúnings sálu vorri til hins eilífa lífsins, eigum vér sjálfum oss að af-

neita, taka krossinn á oss og fylgja vorum frelsara á eptir, eptir því, sem oss er fremst mögulegt. Ef ad vér, eins og hann, yrdum svo staddir, ad offra hlytum bænum og tárafollum, eigum vér eins og hann, ad gefa gudi dýrdina og vissulega vænta þess, ad hann bænheyri oss og hjálpi til síns himneska ríkis; þó ad vér þola mættum óvina vorra baktal og ofsóknir fyrir vor beztu verk og hreinasta tilgáng, þá látum oss ekki þar vid hindra frá ad gjöra gott; þó ad ástvinir vorir yfirgefi oss, þegar vér erum í naudum staddir, þá umberum þann missir med gódu gedi, en styrkjum oss því framar í öruggri trú á þeim lifanda gudi. Ef ad því koma skyldi, ad sála vor yrdi yfirgefin, svo vér sæum ekkert ljós, einga gledi né huggun, þá látum oss í þvílíkri vorri stærstu neyd hugsa til vors medalgángara kvalahróps fyrir vora skuld: Gud minn! gud minn! því hefur þú yfirgefid mig! og ekki sleppa traustinu til guds, sem mun miskunna sig yfir oss á hagkvæmri tíd, og kröptuglega halda oss vid sinn kærleika, þó vér í þann svipinn yrdum hans ekki varir. En þegar loksins kemur ad vorum burtferdar tíma, látum oss þá afhenda í hans hendur vorn anda, sem hann hefur endurleyst, þá munum vér, í trúnni til hans, sigra vorn sídasta óvin. Sælir erum vér, þegar

vér þannig færum oss Jesú endurlausn í nyt, þá munum vér, midt í øllum þessa lifs umbreytingum, finna rósemi, og í sjálfum daudanum lif og krapt. O Jesú! þú, sem fyrir oss ert dáinn, gefdú oss nád til ad hafa þessi not af þínum dauda. Gjørdú oss alltaf þér æ líkari, og styrk oss til ad fylgja þér eins fúslega eptir, hvert sem þú leidir oss á þeim vegum, sem þyrnifullir eru, edur hinum, hvar blómstrum er strád á gøtuna. Þér vid hønd framgaungum vér óhultir, því þegar vér njótum þinnar leidsøgu, mun einginn afvegur fá oss leidda af rétta veginum. Leid oss, elskulegasti Jesú! eptir þínu rádi, og medtaktú oss loksins til þinnar dýrdar, Amen!

## 81. Hugvekja.

Þér, elskanlegir! hafi gud elskad oss þannig, þá erum vér og skyldugir ad elska hver annan. 1 Jóh. 4.

Vér erum skyldugir ad bera bródurlegan kærleika hver til annars, eins og þeir, sem Jesús hefur endurleyst og, hverjir vera vilja hans lærisveinar og eptirfylgjendur. Hversu hjartanlega hefur hann ekki elskad oss og miskunad sig yfir oss? skyldum vér þá ekki miskun audsýna medbrædrum vorum? Fyrir vorar sakir fórnfærdi hann sínu lífi; fyrir oss úthellti hann sínu blódi.

Hvernig fáum vér þá endurgoldið þessum vorum sálarvini alla hans trúfesti, sem hann hefur oss audsýnt? O! ekkert høfum vér, sjálfir alls þurfandi, það, sem vér fáum endurgoldið honum með. En þó vér af elsku til hans mettum vorn húngraða bróður, drykkjum þann þyrsta, klæðum hinn nakta, komum litilmagnanum til aðstoðar, vill þó vor Jesús meta það eins og við sjálfan hann gjørt væri. Með viljugu hjarta skulum vér láta í ljósi við hann þetta merki og þenna vott vors þakkláta hjartalags. Hann gjørðist forlíkan fyrir vorar syndir, þó ekki einúngis fyrir vorar, heldur og fyrir allra manna syndir; munu þeir þá ekki allir, hverjum hann þvílíkan kærleika audsýnt hefur, vera eins dýrmætir, eins mikils metnir af vorum endurlausnara, og sérhver af oss, og því skyldum vér þá forsmá nokkurn einn af þessum, sem hann hefur svo ástkæra, og virðir svo mikils? eða skulum vér skammast vor að kalla þá vora bræður, sem Jesús ekki blygðast að kalla svo? nei, fjærri sé því! hvernig kynnum vér að tilheyra Kristi, ef að oss skortir þau kennimerki, af hverjum hans lærisveinar þekkjast eiga? ef að vér ekki sífeldt høfum oss fyrir augum hans dæmi til eptirbreytni? vér viljum því ástunda að verða svo sinnaðir, sem hann, og kappkosta, að láta hans kærleika verða í oss kropt-

ugan, svo ad vér, ef guds vilji krefur af oss þetta offur, fúsir láta kynnum lífid fyrir brædur vora. En vér grátbænum þig, ó! þú eilífi kærleiki! ad þú sjálfur viljir gefa oss og innræta hjarta voru þetta hugarfar; án þinnar nádar yrdum vér sífeldt allt eins kærleikslausir, vanþakklátir og óstødugir og vér hingad til verid høfum; en þegar þinn kærleiki drottnar í voru hjarta og þinn andi stjórnar oss, þá leidumst vér framvegis til þvílíks sinnislags, sem hverjum kristnum vel sómir. Gef oss nád, ad efla þad, sem vídfrægja meigi þína dýrd og gjør hvern af oss í sinn stad þér líkan í hógværd og mannelsku, svo vér ad þínu dæmi mættum þá leida á réttan veg, er villir fara, vidrétta fallna, hughreysta auma og snúa syndurum aptur til þín. Hversu mørg tækifæri frambýdur oss ekki sérhver dagur vors lífs, til ad vera þad í raun og veru, sem vér heitum: gódir, kristnir menn? mørgum naudstøddum mundum vér hjálpad fá, marga villuráfandi leidrétt, marga hrasandi studt og marga ólukkulega gjørt lukkusæla, ef vér legdum ástundun á þvílík kristileg gódverk. Mørgum mundum vér med bænum vorum geta ordid ad notum, þó vér ekki med ødru feingjum þeim hjálpad. Æ! láttú, gódi Jesú! skyldu þessa verda vors lífs mikilvægasta fyrirtæki, sem vér

øllu framar kappkosta mættum ad uppfylla. Vér upplyptum til þín vorum hjørtum og bidjum þig: ad álita allra þinna endurleystu naudþurftir. Þegar vér framgaungum rádvandlega fyrir þínu augliti, virdstú þá ad líta nidur til vor í nád og gefa oss þá blessun, sem þú hefur afrekad og lofadir ad veita oss; en þegar vér í naudum og vandrædum staddir, felum þér á hendur vor efni og bidjum þig um vorar naudþurftir, virdstú þá nádarsamlega ad bænheyra oss af himnum ofan og veita eptirþreyda hjálp, þá mun þitt dýrdarfulla nafn dýrkad og tilbedid verda af øllum þínum trúudu børnum, nú og til eilífdar. Amen!

## 82. Hugvekja.

Gud vill ad allir menn verdi sáluhólpnir og komist til sannleiksins vidurkenningar. 1. Tim. 2.

Svo eru þau hjálpar medøl mørg og krøptug, sem nádarríkur gud hefur oss í té látid, til frelsis vorum sálum, ad vor er eintóm skuldin, ef vér ekki færum oss þessi medøl verduglega í nyt og sjálfa mættum vér sárlega naga oss og afsaka, ef vér færum þeirrar farsældar á mis, sem oss er gefin ad eiga vissa von um ad ná. Gud hefur gjørt allt, sem verda mætti oss til hjálpar, en vér høfum ekki þyggja viljad þessa frambodnu hjálp Allir hans velgjørningar og rád-

stafanir um oss hafa til þess midad, ad gjøra oss sáluhólpna, en sjálfir høfum vér unnid svo, ad vor fordæming aukast mátti. Allt hvad Jesús leid, hefur hann lidid til ad frelsa oss frá løgmálsins bølfun, en hversu opt forsmádum vér friviljuglega þá blessun, sem hann afrekadi oss? hann lét ekkert ógjørt, er oss leida kunni til betrunar, en vér forherdtumst því framar; hann vildi vora sáluhjálp, en vér sjálfir fordæmíngu vora; hann vildi gefa oss himininn, en vér fávísir dárar, vér vøldum þann veg, er oss leida mátti í hinn ólukkulegasta samastad; um þetta munu á sidan alltof margir eiliflega ófarsælir brixla meiga sjálfum sér, þad mun þá naga þá, og þad mun óaflátanlega þeirra píslir auka. Med þvílikum ákløgunum mun þeirra eigin samvizka fordæma þá, og þeir sjálfir vidurkenna þann guds dóm réttvisan, sem yfir þeim geingur. Jesú blód, sem þeirra vegna einnig úthellt var, mun yfir þeim hefnd hrópa. Sá odrum huggunarriki þánki, ad þeir séu endurleystir, fær ad eins aukid á sorg þeirra og eilif, en ofsein, ydran mun þá sifeldt kvelja. En vér, vér lifum enn, og enn þá mun yfirbót vor og ydran verda oss nytsamleg, og þó allsvaldanda gudi þóknadist nú ad burtrykkja oss úr heimi þessum, mættum vér þó játa, ad hann allt hefur til þess gjørt, ad

vér verda mættum sáluhólpnir, en þarhjá vidurkenna þverúd vora og forakt vid hans nád; vér mættum sanna dóminn réttvisan, sem hann yfir oss uppsegir. En þú, þolinmódi miskunarriki gud! þyrmdú oss enn, já, gefdú oss enn þá tíma til ad ydrast vors óþakklætis og þverúdar! vorar syndir, med hverjum vér vanvirdt høfum Jesú forþénustu, ógna oss; æ! lát vora særdu samvitsku finna rósemi, finna huggun vegna þeirra písla, sem vor Jesús þolad hefur. Lát oss ekki leidast til ørvæntingar af ákløgunum samvitsku vorrar, heldur finna hugarhægd í því forlíkunar blódi, sem vor endurlausnari hefur úthellt; og hafi sú kvøl, sem hann vor vegna þoldi, hingad til verid ávaxtarlaus á sálum vorum, æ! lát hana þó ekki verda þad hédan af; allrasíst þegar ad því kemur, ad vér yfirgefa skulum heim þenna. Láttú þér ekki leidast, med þinnar nádar sáluhjálplegu verkunum, ad hræra vort hjarta, og gef ad þad hlýdid, viljuglega fylgi þinni røddu; en þú vor dýrmætasti endurlausnari! virdstú óaflátanlega ad bidja fyrir oss, og med þínum guddóms krapti ad beygja vor hjørtu. Þó oss synjad verdi allra heims heilla og gledi, viljum vér med rólegu gedi umbera þad, þegar ad eins þín pína ekki verdur á oss ávaxtarlaus; lát hana æ vera vora einustu huggun í lifinu, vorn styrk

í lífsins þreyngingum og mótlæti, og loksins vora endurnæringu í daudanum, einkum þá, þegar umlidnar syndir hrella oss, þegar vor vaknada samvizka ógnar oss, þegar grafarinnar og dómsins nálægd gjørir oss óttafulla. Æ! vertú oss þá nádugur, ó Jesú! og styrk oss med krapti þíns dauda, ad fá sigradan allan ótta, hrædslu, efasemd og ógnanir. Amen!

## 83. Hugvekja.

Eg held alla hluti skada ad vera, á móti ágæti þekkingarinnar vors drottins Jesú Krists. Phil. 3.

Hingad til høfum vér svo leingi hugsunarlaust lifad um syndir vorar og straffid, sem vér høfum fyrir þær verdskuldad, ad fáum sinnum hefur oss þad í hug hvarflad, er vekti hjá oss minningu vorra misgjørda, en hversu mjøg mættum vér þó ekki óska oss, ad fram-ana ekki alltaf í svo strøffunarverdu þánkaleysi, þar þó einhverntíma mun ad því koma, ad margfjøldi synda vorra verdi oss berlega settur fyrir sjónir; þegar samvitskan loksins vaknar af andvaraleysisins svefni, mun vort tilfinningarlausa hjarta þó loksins finna til sinnar eymdar, og guddómlegrar reidiþúngi leggjast, svo sem óbærileg byrdi, á sálu vora; og þó ad þetta beri nú ekki svo brádlega ad, munum vér þó síst verda eins rólegir og

umhyggjulausir og nú, um afdrif vor, þegar dauðinn nálægist. O! þá mun allt það ógnarlega, sem flýtur af andvaraleysinu, sameinast, og sú byrði samvitskunnar, sem vér nú finnum svo lítið til, verða oss tvøfaldt þýngri; þegar vér þá sjáum óteljandi fjølda synda, sem vér drýgt høfum, þegar all-nálægur dauði og dómur ógna oss, þegar eingin rósemi er framar í vorum beinum, né huggun í hjarta voru, hvaða vægðar, hvaða hælis er þá að leita eða vænta fyrir oss, nema í þinni dýrmætu pínu, ó Jesú! með hverri þú forlíkað hefur fyrir vorar syndir. Einkisverðt munum vér þá finna það, sem vér áður brúkað høfðum til að friða og svæfa með samvitsku vora; forgefins munum vér þá leita allra meðala til rósemdar sálu vorri; ekkert, øldúngis ekkert munum vér þá reyna að geti styrkt eða gladt oss deyjandi, nema dauði og pína vors drottins Jesú Krists. Allt þetta vitum og þekkjum vér fyrirfram, en því leitum vér nú ekki þegar, fyr enn sótt og dauði aðkemur, þessarar kroptugu huggunar? því látum vér hann ekki í lífinu vera vort einasta athvarf, sem í dauðanum má einn vera vor einasta sáluhjálp, ef vér viljum klakklaust af komast? því leitum vér oss ekki nú þegar á heilbrigðu døgunum rósemi fyri sálu vora, áður enn ángistarinnar tími aðkemur? nema

þú sjálfur, gódi gud! hrærir og tilreidir vor hjørtu, munum vér til endaloka fram-ana í voru andvaraleysi; settú oss því skýrlega fyrir sjónir syndir vorar, svo vér skelfast meigum fyrir þeirri ólukku, sem þitt løgmál hótar oss, og þinni reidi, sem vér bøkum oss med sømu yfirtrodslum; en hugga þar hjá vort hjarta med því, ad afmála fyrir oss þá fridþægingu, sem ordin er fyrir þinn son Jesúm; láttú oss í honum finna hreinsun vorra synda og frelsun frá fordæmingu. Þú hefur, ó! gud! útgefid hann til frelsis øllum syndurum, svo ad fyrir hann einan er sáluhjálpina ad finna. Veri hann því, sem endurleysti oss af syndum og eymdum vorum, øll vor huggun og von; allt vort traust setjum vér til hans miskunar, sem forlíkadi fyrir allar þær misgjørdir, er vér drýgt høfum og drýgja munum; þitt alskygna auga sjer fyrir þær syndir, sem vér í kvøld eda á morgun munum styggja þig med; en, þyrm oss, vegna vors frelsara Jesú Krists! med hans adstod viljum vér fordast allar syndir, en ástunda ad framgánga rádvandlega fyrir þér. Styrk oss í þessum ásetningi, svo liferni vort verdi til dýrdar þér, sem dáinn og upprisinn ert fyrir oss, þá mun allt, sem oss mætir, verda oss heillasamt, en vér vissir um þína vernd og elsku um tíma og eilífd.

# 84. Hugvekja.

En — þér erud komnir til fjallsins Zion og til borgar lifanda guds, til hinnar himnesku Jerúsalem, til einglanna mørgu þúsunda og til safnadar og samkundu frumgetinna, hverra nøfn skrifud eru á himnum, og til guds, sem er allra dómari, og til medalgaungumanns hins nýa Testamentis, Jesú. Ebr. 12.

Vér, sem eigum ekki hér i tímanum nema stutta stundardvøl, getum einganveginn gjørt oss ljósa þánka um eilífdarinnar varanlegleika, þó vér margfalda vildum þá stærstu tølu, sem vér fáum uppkvedid, já, þó vér reiknudum hvert sandkorn i sjónum á móti þúsund árum, og mældum þar eptir eilífdina, getum vér þó alls einga greinilega ímyndun gjørt oss um hana, þvi eilífdarinnar áratala hefur eingan enda. Þessi oss óskiljanlegi varanlegleiki eilífdarinnar skal vera oss kroptug upphvatning, ad haga þannig øllum vorum fyrirtækjum og athøfnum á medan vér lifum i heimi þessum, ad vér gódri hlutdeild náum i eilífdinni, og lifa mættum þenna ókomna árafjølda fullsælir. Jafnvel þó vér fáum ekki med þessum líkamans augum sjed sælu þá, sem hinir réttlátu hlotid hafa i bústødum útvaldra, viljum vér þvi optar yfirvega þad, sem heiløg ritning hefur oss um þeirra ásigkomulag opinberad, og

þar af leita oss fullkomnari vissu um þeirra sælu. Þó himininn sé oss ennþá, sem óþekkt land, viljum vér því optar virda fyrir oss vors guds og frelsara kærleika, sem hefur heitid oss í honum eilífri sæluvist. Vér viljum yfirvega þær mikilvægu útréttingar, sem hann hefur gjört til þess ad ávinna oss í himninum eignarrétt; þá óútmálanlegu mædu, sem Jesús undirgekkst, til þess ad fá oss verduglega tilreidt undir vistarveru þessa samastadar, sem þó kostadi hann svo margar andvarpanir, svo mørg tár og svo bitran dauda, skulum vér setja oss fyrir sjónir. Þar af fáum vér getid nærri, hversu mikil sú sæla vera meigi, sem vér njóta munum í eilífdinni. Finnist tídin oss laung, þángad til vér náum inngaungu í þenna sælustad, rennum á medan augunum þángad á undan oss og hugleidum hversu lítill og ómerkilegur tímapúnktur oss virdast muni, jafnvel hinn leingsti mannsaldur á jørdunni, þegar vér lifad høfum í þessari sælu þúsundsinnum þúsundir ára; en vér þurfum ekki ad renna þaunkunum svo lángt til ókomnu tímanna, til ad sannfærast um, hversu stutt líf þetta er; látum oss ad eins íhuga, hversu ódum þau ár eru útrunnin, sem vér lifad høfum hingad til; hversu margir medbrædra vorra líf sitt enda munu á þessari nóttu, og máske einhver af

oss, þegar vér minnst ætlum, verdi í þeirra tölu, sem daudinn á henni yfirfalla kann. Vor heil-brigdi líkhami gefur oss einga fullvissu um þad, ad vér aflífad fáum þessa nóttu; margir af þeim, sem eins heilbrigdir og vér, lögdu sig til hvílu ad kvöldi, láu kaldur nár, ádur enn morgun-sólin yfir þeim upprann; eda má ekki margur af oss, sem erum til ára komnir, einatt finna til umbreytingar og veikleika í líkhama sínum, sem þeigjandi mætti vekja oss grun um þad, ad vér höfum ekki ad stóla uppá lánga lífdaga? og hvern-ig fáum vér vidurkennt þenna sannleika, og þó undir eins framgeingid í sinnuleysi, og þó undir eins bundid vorn huga vid þad jardneska, og þó undir eins verid umhyggjulausir fyrir eilífdinni? en svo er þó varid voru blindada hjarta; sér-hver sannfæring um daudans nálægd, gjörir ad eins mjög litla verkun í sálu vorri. Vér fram-gaungum á medal enna deyjandi; vér finnum sjálfir, ad vér daudlegir erum, og þó lifum vér eins og vér alls eingan missir hefdum ad ótt-ast; vér metum vora stuttu tíd svo litils, eins og vér vænta mættum ad gjörvöll eilífd væri hér vid jördu bundin; innprenta þú, ó gud! þann sannleika djúpt í vorar sálir, ad vor hérvistar tíd er stutt, svo vér mættum vitrir verda; kenn oss ad hugleida, ad líf þetta er ekkert, en eilífdin allt.

Styrk vora trú, svo ad vér æ hlýdum þér, en ekki heimsins fláradu ginningum, láttú vor hjörtu æ vera hjá þér, hvar vor fjársjódur er, og bera ad eins mögulegustu umhyggju og ástundun fyrir því, ad oss eiliflega meigi vel vegna.

## 85. Hugvekja.

— Auga þitt drottinn! á mig sjer, allstadar ertú nærri mér.

Efalaust hlýtur sú íhugun ad vera þeim ógnarleg sem elska lestina, ad gud er alvís og allstadar nálægur; hversu óttafullur má hann ekki verda, þegar hann hugleidir, ad guds alskygna auga sjer þær andstyggilegu syndir, sem í leyndum drýgjast, og ad allar ránglætingar eru honum augljósar, sem huldar vera kynnu fyrir manna sjónum; hversu mætti honum ekki bregda vid, þegar hann hugsar um þad, ad þessi gud þekkir alla þá ránglátu vegu, sem hann geingid hefur; öll þau smánarlegu medöl, sem hann brúkad hefur til framkvæmdar sínum fyrirtækjum; ad hann sjer hans leynilega hatur, hans girndabruna, hans huldustu lystingar og alla hans hjartans þánka? og þegar hann þá yfirvegar, ad þessi gud, fyrir hverjum öll vidurstygd hans lastafulla hjarta er opinber, hefur endalaust og ótakmarkad vald til ad gjöra sáluhólpinn og til ad fordæma, og ad eingin manneskja fær umflúid hans straff, hversu

má þá ekki syndarinn skelfast við þessa umþeinkingu! en svo óttalegt, sem það hlýtur að vera fyrir hinn mótviljuga syndara, að virða fyrir sér guðs allstaðar nálægð og alvitsku, svo huggunarríkt er það fyrir þig, sála min! þegar þú með ótta og forsjálni framgeingur ráðvandlega fyrir augsýn guðs; hversu hughraust ertú þá ekki, þegar þau tilfelli bera að höndum þér, sem gjöra kunna þig órólega; þó menn baktali þig eða dæmi með kærleiksleysi, hversu gleðilegt er þá ekki að geta sagt með Job: mitt vitni er á himnum? þegar þú kemst í vandræði þau, sem þú ekki treystist að ráða fram úr, en allir þínir vinir yfirgefa þig, og þú finnur hvergi hjálp, hvilik huggun er þá ekki að hugleiða það, að guð er þinn trúfasti ástvinur, sem aldrei mun yfirgefa þig? þó ólukku tilfelli flykktust að þér á allar síður, hversu huggunarríkt er það ekki fyrir þig, fáir þú þig hughreysta með því, að hann sé hjá þér, í hvers höndum að stendur þín lukka og ólukka, og að hann stjórnar öllum tilfellum sinna barna þeim til velferðar? þegar þú i leyndum ákallar guð þinn, hversu styrkist þá ekki þín trú, þegar þú hugleiðir, að hann gefur gætur að bænum þínum og skilur þíns hjarta heimuglegasta andvarp? þegar þú tekst á hendur umhyggju þeirra yfirgefnu, fátæku og nauðstöddu, án þess

þú gjørir þad ødrum opinbert, hversu má þad ekki gledja þig, ad gud adgætir þitt gódgjørdasama hjartalag, og telur alla þá velgjørninga, hverjum þú í leyndum útbýtir? þegar eittsinn ad því kemur, ad þú leggst í þína sóttarsæng, yfirgefinn af allri mannlegri hjálp, ó hversu audveldt mun þér þá ekki veita vid ad skilja, þegar þú hugleidir, ad gud og Jesús er þér nálægur, og sjer þína daudans ángist, og er reidubúinn ad frelsa þig frá øllu vondu? O drottinn vor gud! gef þína nád til þess, ad þessar hugleidíngar aldrei hvarfli oss úr hjarta! gef ad heilagur ótti fyrir þinni allstadar nálægd meigi þreyngja sér inn í vora sálu, svo opt, sem syndarinnar táldragandi freistíngar vilja lokka oss afvega, en þar hjá veri íhugan þinnar nálægdar vor huggun og traust í øllum þessa lífs mótlætíngum. Sértú med oss, hver kann þá ad vera á móti oss? standir þú oss til hægri handar, erum vér øruggir og ókvídnir, hvad sem ágeingur.

## 86. Hugvekja.

Vor borgar réttur er á himnum. Phil. 3.

Vér høfum enn þá á kvøldi þessu endad einn dag vegferdar vorrar í gegnum líf þetta til eilífdarinnar, og einn dagur sømu ferdar er oss fyrir høndum ad næsta morgni, spari gud þángad

til lífsstundir vorar; allteins og pílagrímar eda vegfarendur erum vér í þessum heimi, hvar vér eigum ad tilreida oss undir annad betra líf. Ekki er því ad neita, ad ótti og skelfíng má hjarta vort uppfylla, þegar vér hugleidum ørdugleika reisu þessarar og vegarins óþægilegleika, vors holds fordjørfun og vanmátt vorn; hversu audveldlega kunnum vér ekki á afvegu villast og missa sjónir á fødurlandinu, sem vér keppumst til? hversu margir eru þeir ekki, sem geingid hafa þenna veg á undan oss, er látid hafa sig leida afvega af vegarins ørdugleika og dæmum hinna ógudlegu? Vér meigum fyrir því óttast, fyrst hold vort er veikt, en tillokkanirnar til hins vonda miklar, ad vér víkja kunnum af þeim vegi, sem vér áttum ad gánga. En — ó Jesú! þú, sem einnig gjørdist vegfarandi hér á jørdunni, vertú med oss og leid oss, svo vér ekki víkjum af þeim oss fyrirlagda vegi á fordjørfunarinnar villustiga. Ef ad heimsins blindandi sjónhverfíngar ætla ad lokka oss, þá láttú oss skoda med upplýstum augum þá sønnu farsæld, sem hinum er vís, sem þér eptirfylgja. Þó ad margir kunni finnast þér ótrúir, þá láttú oss þó ætíd finnast í tølu þinna sønnu lærisveina. Ætli jafnvel vort eigid hjarta ad leida oss afvega, þá vertú því jafnan máttkari med þínum bendingum. Ef

daudans dalur, um hvern vér gánga eigum, ógnar oss, þá láttú oss grilla ljóma þess stadar, hvers innbyggjendur vér eiliflega verda eigum. Alltaf verdum vér þó ekki pílagrímar hér á jørdu, vor vegferd mun loks enda taka, vér munum ad lokunum komast til þess fødurlands, sem oss er ákvardad á himnum. Lát oss renna þaunkunum, þegar oss tekur ad finnast vor pílagríms gánga ofslángvarandi, og hugga oss í sérhverri þessa lífs mædu og mótlæti vid þad, ad vér nú þegar med trúnni fáum hér í lífi tekid nokkra hlutdeild í þeirri fullsælu, sem vér eigum í vændum á himnum, já, þegar hér í lífi erum vér sælir. Vér verdum hér á jørdunni þegar varir nokkurs parts þeirrar farsældar, sem á sídan mun umbuna mædu vora og erfidi. Vors fødurs kærleiki, Jesú Krists nád, og heilags anda sameining styrkir oss. Nú þegar finnum vér verkanir guddómlegrar velþóknunar og huggana hins komanda heims. Gefdú oss nád til ad styrkjast æ betur og betur vid þessar og þvílíkar heilsusamar hugleidingar þá stuttu tíd, vér eigum enn fyrir høndum ad ráfa á þessum sjálfsafneitunar og reynslu vegi. Hjálpadú oss sjálfum sífellt ad taka vara á þeirri skyldu, sem verda á vor ydja og vor sáluhjálp á sídan í himninum; vor umgeingni, vor lángan, vor von, vor lukka veri þar,

hvar vér óskum oss leingst ad búa! láttú þá dýrd, sem þú þar hefur afrekad oss, vera oss øllum hlutum dýrmætari, svo vér aldrei førum hennar á mis, vegna óvidurkvæmilegs framferdis; gef oss nád til þegar hér á jørdunni, ad verda í hlýdninni, audmýktinni og kærleikanum líkir þeim fullkomlega réttlátu, í hverra umgeingni vér á sídan fagna munum; en þegar vér loksins komnir erum vora pílagríms reisu til enda, þá leid oss, sem þína kjørnu himinborgara, inní þitt dýrdar ríki, til ad njóta þar fullkominnar sælu, er vér hér á jørdu í trúnni væntum oss!

## 87. Hugvekja.

Hvernig skal eg endurgjalda drottni alla hans velgjørn-inga, sem hann hefur audsýnt mér? Ps. 116.

Ef vér íhugudum velgjørninga guds med sømu alvørugefni, sem Davíd konúngur, þá mundum vér og vid sérhverja umhugsun, jafnvel hins minnsta velgjørnings skapara vors, finna yfrid nóg efni til ad undirtaka med Davíd: Drottinn! hvernig á eg ad endurgjalda þér alla þá velgjørninga, sem þú hefur audsýnt mér? vid lífs vors nákvæmari yfirvegun finnum vér yfirgnæfanlega orsøk til, ad kannast vid hans óþreytanlegu velgjørdir. Ef ad vér verdum þeirra ekki svo optlega varir, er einúngis vor óadgætsla, vort

tilfinningarleysi og óþakklæti skuldin; því eingin tími lídur svá, ad eigin reynsla vor láti oss ekki þreyfa á gædsku guds; og þó ad ekkert væri annad enn vor andardráttur, þá verdskuldar þó þessi velgjørningur, svo lítill, sem hann í fyrstu sýnist, óendanlegt þakklæti, og hvernig fáum vér þá minnst einúngis eins tíma, án þess, undir eins ad minnast hans gódgirni? jafnvel nú á þessum tíma, sem vér brúkum til þessara heilögu hugleidinga, meigum vér vidurkenna: hvernig fáum vér endurgoldid alla drottins velgjørninga, sem hann hefur oss audsýnt? og hvad meigum vér þá ekki seigja um þá daga og þau ár, sem vér aflifad høfum? Drottinn! vér kunnum ekki ad segja annad enn þetta: ad vér séum óverdugir allrar þeirrar trúfesti, sem þú hefur látid oss í té, og aldrei kunnum endurgjalda þér þína velgjørninga. Því hvar med gætum vér goldid allt þad góda, sem þú hefur vid oss gjort? máske med voru þakklæti? já, þó ad vort þakklæti væri svo óendanlegt og svo heitt eins og hans kjærleiki, væri þad eingin betalingur; máske med voru framferdi? já ef ad vér ekki værum svo syndugar skepnur, sem án hans adstodar ekki megnum ad lifa honum þóknanlega; máske þá, þegar vér í eilífdinni verdum einglunum samlífir? en jafnvel eilífdin sjálf er ofstutt til ad prísa

hans gædsku, og sjálfra einglanna lofsaungvar eru of veikir til ad dýrka hann verduglega. Allar skepnur sem eru á himni og jørdu, meiga undir þá játningu taka: hvernig skal eg endurgjalda drottni alla hans velgjørninga, sem hann hefur audsýnt mér? Vér viljum þó, hver í sinn stad, vidurkenna þetta til dýrdar þinni gædsku, og játa med David: drottinn! minni er eg allri þeirri miskun og trúfesti, sem þú hefur audsýnt þínum þénurum. Ad sønnu er vissulega einginn sannleiki audsjáanlegri enn þessi, en þegar vér géfum gætur ad flestra manna framferdi, þá mættum vér leidast til ad efa þetta satt ad vera. Fjøldi þessara til nádar teknu skøpudu skepna, láta hjarta síns drambsemi og óþakklæti þannig villa sig, ad þeir gleyma þeirri undirgefni, sem þeir áttu gudi ad sýna og jafnframt sínum audvirdilegleika og vanmætti, já, gleyma drottni, sem þá skapad hefur. Hversu naudsynlegt er þad því ekki, ad vér sífellt innprentum hjarta voru, hversu óverdugir vér erum guds nádar og hans velgjørninga og vanmegna til ad endurgjalda þá. En — innprenta þú sjálfur, gódi gud! þetta sinnislag sálu vorri, svo ad þín gædska og vor óverdugleiki sé oss sífellt fyrir augum. Lát oss vid sérhvern velgjørning, sem vér medtøkum af þinni ástríku hendi, líta til þín, sem høfunds allrar

vorrar lukku; med audmýkt og þakklæti njóta þinnar velgjørda og því framar, sem vér lærum ad þekkja, hversu vanmegna vér séum til ad endurgjalda þinn kærleika, því ákafari lát þú oss vera i því, ad þjóna þér, og því innilegar sýngja þinu nafni lof. Lát oss æ fúsa færa þér offrid, sem þú eitt krefur fyrir þína velgjørninga, med gledi fórnfæra sjálfum oss þér, med øllu því, sem vér høfum til, já, prísa þig med sálu og lifi, sem eru þín eign.

## 88. Hugvekja.

Hver ert þú?

Hvad erum vér, vesælar skepnur! þegar vér samanlíkjum oss vid þann óteljandi fjølda guds skøpudu skepna? hversu litid, já, oldúngis ekkert verdur úr oss, med øllum vorum hroka, þegar vér skodum oss sjálfa med athygli? hvad erum vér? ormar, handfylli ösku, duptkorn, sem ekki getur stadist hægan vindblæ, og þó, svo vesælir, dirfumst vér ekki ad sidur svo opt ad setja oss upp á móti vorum almáttuga skapara, og þessi vor óendanlegi skapari ber þó jafnmikla umsorgun fyrir oss, og hinum stærstu sinna handaverka. Hans almáttuga hønd, sem uppiheldur óteljandi veraldar hnøttum, vidheldur einnig oss; hans

visdómur, sem ákvardar kóngaríkjanna kjør, stjórnar einnig øllum vorum kjørum. O! hversu nádarsamlega litillækkar gud sig til vor, sem erum þó ekki nema skuggi! þvi lætur hann sér svo annt vera um ormsins lukku? þvi leitar hann tídum ár eptir ár litilsverdra skepna, og þad svo fúslega? hvad vinnur hann vid þad, þó sála vor frelsist? hvorki kann hann fyrir þad verda sælli né dýrdlegri; og hvad missir hann, þó vér yrdum fortapadir? øldúngis ekkert; þvi þó vér og allir menn gløtudumst, er samt tala hans ríkis innbyggjara óendanlega stór, til ad vegsama hans miklu verk og vidfrægja hans dýrd um alla eilífd. Nem hér stadar, sála min! og littu med lotningu og undrun inn í guds miskunar djúp. Elska, ógripanleg elska er þad, sem hrærir vorn gud til ad líta nidur til vor, og gjøra oss hluttakara sinnar sælu. Hans sonar pína, med hverri vér erum forliktir, gjørir oss fullvissa um, ad gud elskar oss, og ad vér af honum vænta megum himinsins sælu. Lofadur og tilbedinn sértu af oss, miskunarríki gud! Drottinn er mildur og gódur, hans vegir eru einber miskun og sannleiki þeim, sem halda hans sáttmála og hans vitnisburd; lofad veri nafnid drottins fyrir þad, ad hann stýrir oss og efnum vorum, ekki eptir vorum fávisa hugþótta, heldur eptir sínum visdómi;

ad hann høndlar vid oss, ekki eptir vorum synd-
um, heldur eptir sinni miskunsemi. Vér undrumst
med audmýkt og gledi þínar heiløgu ráds ályktanir til vorra heilla, já, undrumst mikilleik þinna
miskunsemda; þad yfirgeingur vorn skilning, ad
þú, eilífi gud! kallar oss, sem ekki erum nema
hismi og þó þínir óvinir, til sælu þinna dýrd-
legu útvøldu, en hitt má þó samt vera oss óskilj-
anlegra, ad vér øktum svo litils þessa miskun og
forsmáum þá himinsins sælu, sem þú frambýdur
oss. O nei! svo skulum vér ekki leingur breyta.
Med hrærdu hjarta vidurkennum vér þinn elsku-
ríka tilgáng og viljum, ad voru leiti, svo framt
oss er møgulegt, stunda til hans framkvæmdar.
Þú útbreidir þinn fadm á móti oss; vér viljum
flýta oss til þín ad láta oss af þér umfadma.
Þú gjørir allt hid bezta til ad draga oss til þín;
æ! viljugir viljum vér koma og fylgja þínum ást-
údlegu tilløduuum. Þú frambýdur oss himna-
ríkis sælu; eptir henni viljum vér keppast, en
meta því litils hid jardneska og fallvalta. Þessi
skal vor ásetningur, þessi vor kappsamasta ástund-
an vors lífs alla daga hédanaf. O Jesú! vor
drottinn og vor gud! hjálpa þú oss sjálfur til
ad ødlast þessa sáluhjálp, hverja þú hefur af-
rekad oss med þínu dýrmæta blódi; því hvad
notar oss øll jardnesk vegsemd og velgeingni, ef

vér ødlumst ekki á sídan í himninum þá eilífu arfleifd, sem vér eigum eptir ad keppast á medan vér lifum hér í heimi?

## 89. Hugvekja.

Hver, sem ekki verdur brotlegur í ordinu, hann er fullkominn madur. Jak. 3.

Allir þekkjum vér hversu ørdugt þad veitir, ad dempa vorar tilhneigíngar, þegar freistíngar bera ad høndum og tækifærid, til ad fullnægja þeim, óstraffad. Vissulega mun sérhver af oss hafa reynt, ad þad ekki kostar alllítid ómak ad sporna vid því, ad vondar tilhneigíngar brjótist út í verkinu, einkanlega ef lokkandi freistíng til ad fullnægja þeirri, sem strídir á oss, kemur óvørum ad; en hægra veitir þó opt ad stýra gjørdum sínum enn ordum. Þad er því ekki um skør fram, ad postulinn Jakob segir: Hver sem ekki verdur brotlegur í ordi, hann er fullkominn madur. Hversu opt fær oss ekki sloppid óadgætt ord af munni? ord sem annadhvert eru ødrum til módgunar eda hneixlis, ángurs eda skada? Þetta verdur traudlega varast, því á stundum ber þad vid, ad þó ord vor séu í sjálfu sér meinlauslega meint, verda þau máske tekin á tvo vegu, og fá þannig ordid efni

til móđgunar. Eitt orđ fæđir annađ af sér og fær þannig gefiđ tundur til illdeila, ryskínga, hat-urs, málaferla og illverknađar, ef ekki er ađgætt í tíma. Ekki einúngis illyrđi, heldur jafnvel misskilníngur orđa, hefur opt komiđ miklu illu af stađ í heiminum. Hversu mikil nauđsyn er þađ því ekki, ađ gæta þess ætíđ ađ temja túngu sína? Sá, sem lætur sér stjórna af kristilegri mann-elsku, talar ađ vísu ekkert þađ vísvitandi, er ødr-um megi til ángurs eđa meins koma, en þađ má samt verđa honum óviljandi, ađ hann ljósti því upp, sem leynt átti ađ vera; tali þađ međ vissu eptir ødrum, sem þó er ósatt; minnist á eitthvađ þađ, er rifjar upp fyrir ødrum gamalt sorgar-mein. Verđi mađur þess var, ađ hann hafi hér í brotlegur orđiđ, er þađ sjálfsøgđ skylda hans ađ bæta úr því aptur, verđi þess auđiđ, sem ekki er ávalt hægt, því talađ orđ verđur ekki aptur tekiđ. Ósannindi geta menn ađ sønnu aptur-kallađ, en betur hefđi þó fariđ, ađ þau hefđu ó-tøluđ veriđ, bæđi honum, sem talađi og hinum, sem fyrir þeim varđ. Eptirtektaverđ er því sér-hverjum varúđ sú, er hinn vísi Sirach gefur: vitir þú nokkuđ illt, þá segđu ekki eptir; þøgn gjørir þér eingan skađa; segđu þađ hvorki vini þín-um né óvini, fáir þú gjørt þađ međ góđri sam-vitsku. Agæt er þessi lífsregla, því orđ læsa sig

út eins og eldur í sinu; þau berast víðs vegar. En — mikill er munur á því, hverjum hættast er að verða brotlegum í orðum. Eg vil hvorki tala um þá, sem hafa gaman af því, að uppljósta lýgi, bera út ósannindi og lyga þvætting øðrum til óhróðurs, né um hina, sem leggja í vana sinn, að hæða þann vesæla, gabba þann einfalda, reita þann bráðlynda til reiði, baktala aðra og rægja og bera út þeirra sønn og ósønn lýti, brixla þeim, sem eitthvað hefur á orðið; því síður vil eg hinna geta, sem misbrúka túngu sína til blóts og klámyrða, er sérhver heiðvirð eyru mega blygðast við að heyra. Sérhver þessara sýnir það með þvílíku athæfi, að hann einkis virðir guðs boð, dygð eða kristilega siðprýði, að kærleiki býr ekki í hjarta hans; því hversu má það, í raun réttri, álitast minni synd, að firra einn rósemi sinni og góðu mannorði, sem því dýrmætasta í lífinu, enn að ræna hann eignum? Lygarinn og sá bakmálugi eru, að postulans Páls vitni, allteins útilokaðir frá guðs ríki, sem þjófar og morðingar, og sá, sem fer með blót og skammarlegt tal, segir sami póstuli, að sé á meðal þeirra, sem stæri sig af løstunum. Um þvílíka vil eg nú ekki tala, þar lestir þessir, þó að þeir séu, því miður! alltof almennir og þekktir, eru skammarlegri enn svo, að alla heiðvirða menn ekki hrylli við þeim. Þó

menn nú ekki væru valdir ad þesshattar glæpum, er samt hætt vid ad allmargir verda kunni á annan hátt brotlegir í ordum, bædi af illum vana og gedslagi. Af vana og illu uppeldi eru margir svo málugir, ad yfir eingu fá þagad; þeir uppljósta ekki ad sønnu annara brestum og ávirdingum af illvilja, eda í því skyni ad skada þann, er þeir tala um, heldur af laungun til ad gefa ødrum fregn um sérhvad er þeir vita eda frétt hafa, satt eda logid. Þessi ávani er bædi vondur og skadvænn, fyrir hverjum þeim af alhuga ber ad taka sér því sterkari vara, er finna sig til hans hneigda, og þurfa því hafa nákvæmari gætur á sjálfum sér, sem løstur þessi fær ekki einúngis ordid sjálfum þeim ollandi mesta vansa, heldur ber eins opt vid, ad þeir, af óhlutvøndum mønnum, sjálfum þeim jafnvel óvitandi, eru hafdir til ad útbera loginn óhródur um adra menn og koma þannig, med málædi sínu, miklu illu af stad, en sjálfum sér í vondt rykti, sem hrakmenni, og í háska. Sømu gætni þarf hinn gamansami og brádlyndi ad hafa á ordum sínum; sá gladlyndi, ad hann blandi ekki skemtunar tal sitt med hædni, frekjufullri og ósæmilegri ordakeskni; en sá brádlyndi, ad hann ekki í brædi tali illyrdi þau, brixli eda smánaryrdi, sem hann eptirá mætti ótølud óska. Audsætt er hér af, ad

ekki er minni naudsyn ad gæta orda sinna enn gjørda og íhuga: ad vér styggjum gud, skødum sjálfa oss og vanvirdum vorn náúnga allteins med syndsamlegum ordum og syndsamlegum athøfnum. Látum oss því, kristnir menn! varast ad misbrúka þá dýrmætu guds gáfu, málfærid vort, ødrum til meins, til lýgi, málædis, fiblslegrar rædu og ósæmilegrar keskni, heldur tali hver af oss sannleika vid sinn bródur, og þad eina, sem uppbygging er í og ánægja ad heyra, þá mun guds andi byggja hjá oss, og vér verda elskuleg børn vors fødurs, sem á himnum er.

## 90. Hugvekja.

Allt hvad þér gjørid, þad gjørid af hjarta. Cól. 3.

Ad hjartans einlægni stjórna egi øllum vors lífs athøfnum, ef þær eiga ad þóknast gudi, er øllum audvitad, sem þekkja, ad øll hræsni og skinhelgi er honum vidurstygd. Vér vitum, ad sá alvísi gud, sem ransakar hjørtun og nýrun og veit hvad med manninum býr, verdur ekki blindadur med nokkru hræsnis yfirskini, likt og skammsýnir menn; hann dæmir því ekki eptir útvortis áliti, eptir því, sem augad sjer eda eyrad heyrir, heldur eptir hjartalaginu; eptir því hvort hann metur þad gott edur illt; eptir því, sem hann þekkir

sannan tilgáng athafna vorra ad vera gódan eda vondan, eptir því fellir hann réttvísan dóm um einn og sérhvern. Hvad má oss þá meir áríđandi vera, enn ad gæta þess í øllum vorum athøfnum og breytni, bædi vid gud, sjálfa oss og adra, ad vér gjørum allt med einlægu hjarta, svo sem frammi fyrir augsýn þess alltsjáanda guds, fyrir hvers augum jafnvel vorir heimugligustu þánkar ætíd standa opnir og augljósir? Einkanlega ber oss þess ad gæta í vorri guds dýrkun og þjónustu, ad hún sé af hjarta, en ekki af hræsni, og aldrei gleyma því, sem Jesús hefur kennt oss: ad þeir, sem gud tilbidja, eiga ad tilbidja hann í anda og sannleika, því svo vilji gud tilbedinn vera, svo ad aldrei segist um vora guds þjónustu, sem gud sjálfur fordum klagadi yfir um gydinga lýd: þetta fólk nálægist mig med vørunum, en þess hjarta er lángt frá mér. Þvílík gudsdýrkan, hvort sem hún skedur af hræsni edur sidvenju eintómri, opinbert eda heimuglega, sé hjartans einlæg alvara ekki ordum og útvortis breytni samfara, er því eingu midur andstyggileg gudi, enn gydinganna hræsnisfulla guds þjónusta, á hverri hann sjálfur vitnadi, ad hann andstygd hefdi. Alkunnugt er oss og, þvílíkt vej Jesús hrópadi yfir skinhelgi og hræsni skriftlærdra og Pharisæara, á sínum hérvistardøgum. Um alla

þá, sem meina sig ad dýrka gud med einberri útvortis þjónustu, segir postulinn Páll; ad þeir hafi skin gudhrædslunnar, en afneiti hennar krapti. Ekki midur er hjartans einlægni oss naudsynleg vid sjálfa oss. Hversu opt dregur oss vort egid hjarta á tálar, bædi med því, ad lokka oss til syndsamlegra athafna, sem tilhnegingarnar áfýsa til, jafnvel þó óblindud skynsemi þekki þær rángar ad vera? eda, til ad dylja eda fegra bresti vora fyrir sjálfum oss og ödrum? Einkum ridur oss á, ad læra rétt ad þekkja vort egid hjarta, og þad i þess edli, sem breiskast er, eda til hvers vér erum helzt hneigdir, þess vegna med vakandi gaumgæfni ad varast þær freistingar, sem fyrst vekja þess hræringar, og spornast vid, ad þær fái rætur fest i hjarta voru, hvar torveldara veita mun, ad fá þær sidan upprættar. Jafnmikla varúd meigum vér á því hafa, ad sjálfselskan aldrei leidi oss til ad afsaka edur fegra, fyrir sjálfum oss né ødrum, bresti vora og ávirdingar, heldur jafnan med hreinskilnu hjarta og sjálfs medhaldslaust einlæglega vidurkenna þá, audmjúkir og blygdunarfullir fyrir gudi og sjálfum oss. Sømu hjartans einlægni egum vér i ordum og øllum athøfnum ad sýna ødrum; aldrei tala vid adra ósannindi, lýgi, né gagnstædt því, sem vér hugsum, hvar med vér annars verda kynnum ødrum

ollandi skada. Látum oss þar fyrir aldrei gleyma postulans hollu áminningum: hver einn tali sannleikann út af hjarta vid sinn bródur. Í sama máta egum vér, í allri vorri umgeingni og breytni vid brædur vora, ad láta í ljósi einlægni vors hjartalags. Eptir því kærleikans bodordi, sem Kristur hefur oss gefid, ad elska náúnga vorn eins og sjálfa oss, erum vér skyldugir til ad unna ødrum og hjálpa til góds, med sømu alúdlegu adferd, sem vér vildum oss sjálfir kjósa af þeirra hendi. Já, ekki einúngis egum vér þannig med ordum og athøfnum ad audsýna ødrum allt þad gott, sem vér, eptir ásigkomulagi voru, erum efnugir um, heldur med alúdlegri adferd ad sanna, ad oss sé allteins annt um þeirra gagn og lukku, sem um vora egin; láta í ljósi, ad oss gángi allteins til hjarta þeirra neyd, eins og þó hana sjálfir lidum. Þvílík adferd gefur þeim lidandi ekki minni huggun enn útlát mikil, jafnvel eitt medaumkunar tár, sem þú, kristni mannvinur! er ekki hefur efni til ad hjálpa þínum naudstadda bródur, fellir yfir hans eymd, er honum endurnærandi rauna léttir, þegar hann sjer, ad medaumkan þín er af einlægu hjartaþeli; ølmusa sú, sem þú útbýtir verdugum þurfamanni, med glødu gedi, hefur bædi í guds augum og þess, sem hana þyggur, tvøfaldt verd, þvíad glad-

ur gjafari er gudi þekkur. Með því móti, eptir postulans Páls bodi, svo ad gjøra allt af hjarta, hvad vér gjorum, megum vér trúa því, ad allar vorar athafnir verdi oss og ødrum heilsusamlegar og gudi þókknanlegar.

## 91. Hugvekja.

### Á Jólum.

Mikil eru verkin drottins! hvad hann skikkar, þad er loflegt og dýrdlegt. Ps. 111.

Þessa játningu megum vér gjøra, um sérhverja rádstøfun og verk guds, allt hvad hann vill og verkar, þad er alltsaman mikid og dýrdlegt. Allt eru þad verkanir hans óendanlega almættis, visdóms og gædsku. Allt er þad meira enn vor veika skynsemi fái gripid. Mikid er þad verk guds, ad gefa oss mønnunum lifid, en mikid er og þad, ad hann lætur orminn lifa i duptinu. Lofleg eru þau undrunarverk drottins og dýrdleg, med hverjum hann vidheldur øllum lifandi og lifslausum hlutum, er hann skóp, en allteins dýrdlegt og loflegt er vidhald sérhverrar skepnu fyrir sig. Mikid var þad verk drottins, ad hann fastsetti og nidurradadi sólarinnar og stjarnanna vissa gángi, en mikid er og þad verk drottins ad ákvarda sérhverri manneskju i heiminum sin vissu kjør og tilfelli. Loflegt og dýrdlegt var þad verk drottins ad senda braud af himni og vatn af

hellunni, en allteins dýrdlegt sýnir sig hans almætti í því, ad gefa ávøxt á jørdina og vatn í brunninn. Allt hvad gud gjørir er mikid, lofslegt og dýrdlegt, hvort þad er í því stóra eda smáa, á himni eda jørdu, allt ber þad vitni um hans óendanlega visdóm og almætti, allt stefnir til þess, ad hann prísast kunni fyrir þá farsæld og gledi, sem hann útbreidir yfir sitt gjørvalla ríki. En øllu framar má þó þessi lofsaungur Davíds um verk drottins, ega heima um holdtekju guds sonar, sem er þvílíkt guds verk, er yfirgeingur øll ønnur, og er oss þess vegna því ógripanlegra; en því audsjáanlegri eru oss í þessu dásemdarverki margir guds eginlegleikar. Hér lærum vér ad þekkja þá alvitsku guds, sem med undrunarverdum visdómi fann føllnu mannkyni hjálparmedal, og framkvæmdi eins addáanlega þad, sem hans vísa rád hafdi ályktad, syndugum heimi til frelsis; hann gefur, í persónu síns eingetna sonar, mannkyninu frelsara og endurlausnara, er því á ný veiti mista farsæld, og leidi þad til himinsins. Med því, ad guds eilífi sonur tók á sig manndómlega náttúru, og framband sig í mannanna stad, sem þeirra fríviljugan borgunarmann, mátti hann þeirra vegna fullnægju gjøra guds réttlætis krøfum, og sameining guddómsins vid Jesú manndómlegu náttúru, gjørir þad, sem

Jesús leid og gjørdi til heimsins fridþægingar, ómetanlega dýrmætt í augum guds; hversu megum vér ekki dást ad því vísa rádi guds, sem fann þetta fullkomna frelsis medal, er eins ljóslega vottar nád hans og miskun og heilagleika hans og réttlæti? O! hversu ljóslega sýnir sig einnig almætti guds í holdtekju hans sonar? hann verdur getinn af heilögum anda og fædist af meyu; hann verdur hluttakandi mannlegs holds og blóds, en þó ekki syndarinnar, sem þó vill loda vid hold vort og blód jafnan. Hann er, sem sonur guds, svo nákvæmlega sameinadur mannlegri náttúru, ad vér, eptir ritningarinnar ordatiltæki sagt getum: gud er í holdinu opinberadur; hver fær sér í hug leidt, ad þessi undur Jesú holdtekju hefdu sked getad án þess, ad guddómlegt almætti hefdi þad verkad? já, hér megum vér vidurkenna ad gud stiptad hafi endurminningu sinna dásemdar verka, sem einglar og menn med heilagri undrun mega tilbidja. Ekki sídur lærum vér ad þekkja hér í holdtekju Jesú, trúfesti guds og sannsøgli. Hans vísdómi þóknadist ad opinbera mønnum fyrirfram þetta sitt ákvardada rád. Fjogur þúsund ára lidu þángad til Messías kom, frá því fyrst var gefid fedrunum fyrirheitid um hann, og á hinum sídustu árunum virdtist, sem heityrdi þessi mundu aldrei

framkoma, þegar guds fólk var herleidt í framandi land og Davids ætt, af hverri Messias skyldi fædast, var komin í fátækdóm og vanvirdu; en ekki ad sídur birtist loksins hin fyrirheitna Ísraels huggun. Frelsari þjódanna kom med øllum þeim kennimerkjum, sem fyrisøgd voru. Hann fæddist á medal þess sama fólks, af sama ættleggi, og fyrispád var, ad hann koma mundi. Hann birtist á þeim tíma og med þvilikum atburdum, sem gjørdu hann audþekktan frá øllum Adams nidjum. Þannig sýndi gud sig hér í sannordan, hvers lofanir ekki bregdast, svo sannadi hann trúfesti sína, med hverri hann á sérhverjum heims aldri annadist mannkynsins velferd. En einkanlega sýnir sig í Jesú holdtekju sá guddómlegi kærleiki og miskun, oss til allra beztu huggunar. Íhugan guds vísdóms og almættis, sem er svo augljós þar vid, má maklega uppfylla vort hjarta heilagri undrun, en þegar vér undir eins rennum augunum til sjálfra vor, skodum oss, svo syndugir, aumir og litilsverdir, sem vér erum og samanberum vorn audvirdilegleika vid ómælanlega hátign guds, uppfyllist hjarta vort, sem von er, ótta og skelfingu; en rennum vér augunum til guds elsku og miskunar, upplifgast vort hjarta aptur af fagnadarfullu þakklæti vid gud; uppá þessa elsku guds til syndar-

anna, uppá hans ómrædilegu miskunsemi vid mannkynid, opinberar Jesú holdtekja oss þad ó-rækasta dæmi; hér auglýsir gud sig, sem gud, ríkan af miskun, vegna sinnar miklu elsku, med hverri hann elskadi oss frá eilífd i sínum syni Jesú Kristi, og himinn og jørd kunngjøra oss kærleika guds. Skopun og vidhald allrar veraldar sannar, hversu hann elskar sín handaverk, ad hans nádarrík forsjón lætur sig varda um hagi vora, sjer oss fyrir lífsins naudsynjum og lífsins lystisemdum; þetta ber vitni um þad, hversu honum sé annt um manneskjuna. Sú hjálp, hann audsýnir oss, þegar vér erum í vandrædum, sú blessan, med hverri hann farsælir vor fyritæki, gefa oss um þad fullvissu, ad himnanna alvaldi gud er vor elskuríkur fadir, og sú þolinmædi og umburdarlyndi, sem hann hefur med oss veikum, vottar nóglega hans vorkunsama kærleika til vor veikra manna; í einu ordi: allt hvad gud frá fyrstu skøpun gjørt hefur á øllum øldum vid mannkynid, er og vottur þess, hversu gud hafi manneskjur kærar; en sú elska hans, sem er opinberud í sendingu hans sonar í holdid, yfirgeingur øll ønnur guds miskunar og kærleiksverk, hún geingur lángt yfir alla mannlega skynsemi. Hér er sá eingetni sonur fødursins, sem útgefinn er heiminum til frelsis; hér er sá heilagi og sak-

lausi, sem ákvardadur er til synda forlíkunar; hér er sá alleina sæli, sem í holdinu uppá sig tekur fátækt, veikleika og eymdir; hér er himinsins herra, sem gjorist gestur og framandi á jordunni, hvar hann á ekki hæli, er hann megi høfdi sínu ad halla; en — vegna hverra lætur hann þvílík elskunnar undur í ljósi? follum í heilaga undrun og tilbidjum gud! þad er fyrir oss menn-ina, já, til sáluhjálpar syndugum heimi ad gud hefur svo mikinn kærleika audsýnt, ad senda sinn son í holdid, til þess ad leida oss frávillta til hans aptur, svo hann feingi tekid oss seka á ný til nádar og um tíma og eilífd veitt oss svo mikid gott, ad vér aldrei hætta skyldum ad prísa hans elsku; til alls þessa sendi gud oss sinn son. O! mikil eru verkin drottins! Dýrd sé því gudi í hædum, fridur er á jørdu og því er hjá mønnum guds velþóknan!

## 92. Hugvekja.

### Á sídasta dag ársins.

Drottinn hefur mikla hluti vid mig gjort, hans nafn veri eilíflega vegsamad! Lúk. 1.

Sé nokkur sá dagur ársins, sem oss vekja ætti til alvarlegs eptrþánka, er þad víst þessi, sem endar þad. Þegar vér ferdast høfum eins lángan spøl vegferdar vorrar og heilt ár er, edur

365 dagar, er þá ekki tilheyrilegt litla stund við ad staldra og líta til baka til vegarins, sem farinn er; kannske sú adgætsla yrdi ekki gagnslaus fyrir oss í framtídinni, á þeim vegi, sem enn máske ófarinn sé. En hvad er þad þá, sem oss kemur fyrir sjónir á þessa árs vegi? Efalaust þad, sem sérhver af oss nægast reynt hefur, hefdi hann veitt því eptirtekt, nefnilega: velgjörningar guds og hans óþreytt gædska, sem á sérhverjum dags morgni þessa árs, sem nú er þegar endad, var ný og fersk yfir oss. Farsæla finnur nú sérhver af oss vid ársins enda þá vegu, er forsjón guds leiddi hann um á umlidinni árs tíd; miskun voru þeir einúngis og nád. Þetta vidurkenna nú med verdugu þakklæti þeir af oss, sem allt árid út notid hafa lífsins ánægju í húsi sínu, af unnarsamri umgeingni med ektamaka og börnum, og hverra lífs atvinnuvegu forsjón guds hefur svo blessad, ad þeir nægtir hafa til síns og sinna lífs vidurhalds; þetta vidurkenna nú þeir af oss, sem á þessu umlidna ári ratad hafa í hættur og háskasemdir, ellegar vandrædi þau, sem þeir sáu sjer eingan bjargarveg frá ad komast, en urdu dásamlega frelsadir, þegar neydin adþreyngdi sem mest. Þetta vidurkenna jafnvel þeir sjúku og sáru, sem stunid hafa undir þúngri líkhamans vanheilsu á þessu ári, en fundu frid-

andi endurnæringu og hugsvølun i eymdum sinum, einúngis i Jesú lærdóma huggunarriku fyrirheitum; já, hver er sá af oss, sem ekki finni það og viðurkenni, þegar hann rekur með nákvæmri athugasemd þenna sinn nýfarna lifs feril og skoðar hversu hulin hønd guðs hafði nákvæm afskipti af øllum vorum høgum og stjórnaði þeim dásamlega á stundum? hver af oss má ekki — segi eg — við endurminningu mánaða, vikna og daga þessa afliðna árs, undirtaka með Mariu Jesú móður: Drottinn hefur mikla hluti við mig gjørt, hans nafn veri eiliflega vegsamað? en — ef að oss eru nú við árs endirinn svo auðsjáanlegir allir þeir velgjørningar og gæðska guðs, sem vér notið høfum allt árið út, má oss jafnframt reka minni til hins, hversu vér vorum óverðugir þessara velgjørninga. Hvers samvitska má nú ekki blygðast, sem upprifja vildi fyrir sér meðhaldslaust allar þær syndir og misgjørðir, er hann árlángt drýgt hefur gegn góðum guði, sem gjørði oss á því svo mikið og margt gott? má ekki sérhver af oss i þessu registri finna syndir, drýgðar af ásetníngi eður ávana? syndir i gjørðum, i orðum og hugrenningum? syndir á móti boðorðum guðs? og þó má sérhver þeirra synda einkum var verða við þessa eptirgrenslun, sem helzt á hann striddu, og vaninn gjørði hann svo

æfdan í, ad hann traudlega fékk af þeim látid. En hversu mikid er þá ekki og þad góda, sem vér á þessu ári forsómad höfum af því, er vér hefdum getad gjört, og guds nádarrík forsjón gaf oss tækifæri til? þessi adferd vor og framferdi þetta gjörvalla ár, má vid ítarlega ransókn vora maklega fylla oss ótta og skelfingu. Hvernig mundi oss vegna, ef vér ættum vid ársins enda ad standa þann reikning, sem einusinni liggur fyrir oss, fyrir dómstóli guds, fyrir brúkun nádartímans á þessu ári, sem gud unni oss til þess, ad vér á honum leidast mættum af nægd hans nádarríku velgjörda til ad elska hann og efla vora egin og vorra medbrædra farsæld? Þetta ár, sem ber þó svo mörg áþreifanleg merki hans gædskuríka kærleika, höfum vér brúkad honum til módgunar, en sjálfum oss og ödrum opt til vanlukku; en — hvert mundi þá dóms adkvædid, sem þvílíkir guds gædsku og nádartímans vanvirdendur med fullum rétti mættu vidbúast? efalaust eilíf útskúfan frá gudi. Þótt þessi dómur sé ekki þegar yfir oss uppkvedinn, er einganveginn dygdum vorum eda verdskuldun ad þakka; já, eingu, nema óþreytandi þolinmædi og lánglundargedi þess guds, sem ekki vill syndugs manns dauda; er oss syndugum til ennar mestu gledi hefur gefid, jafnvel mestu glæpamönnum, þad huggunarríka fyrirheit:

ad á hverjum þeim degi, sem hinn ógudlegi snýr sér til hans, vilji hann miskuna honum; sem hefur unnid þad til vors frelsis, ad útgefa sinn eingetinn son í pínu og dauda. Í hans nafni snúum vér oss til þín, nú vid ársins enda, eilífi miskunsemdanna gud! med sannri hjartans ydrun, fyrir þíns sonar skuld, sem bætti saklaus fyrir oss seka. Vyrdstú ad fyrirgefa oss allar vorar syndir, sem fleiri eru á þessu ári drýgdar, enn oss fái rekid minni til. Lofadur vertú og blessadur, fyrir alla þá nád og óverdskuldada velgjörnínga, sem þú hefur oss á þessu ári í té látid og leyf oss, gódi fadir! ad enda þad med þeirri huggunarríkustu fullvissu og von, ad þín endalausa gædska muni med ársins enda síst á enda komin, heldur upprenna ný og fersk yfir oss, med upprennandi nærstu Nýárs-sól.

## 93. Hugvekja.

### Á Nýári.

Gud! til þín var mér varpad allt frá módurlífi, þú hefur borid umhyggju fyrir mér. Ps. 71.

Undir þessa Davíds medkenníngu tekur efunarlaust á þessu Nýárs kvøldi sérhver af oss, sem minnist þess, hversu nádarsamlega hann leiddur er af forsjón guds, allt frá fædíngunni fram á þetta ár. Allar vorar aflidnu lífs stundir bera

minnisverd merki þess, hversu gud á himnum hefur reynst oss sannkalladur fadir; hver af oss fær upptalid, þegar hann skodar sitt umlidna lif, allt þad góda, sem gud hefur vid hann gjørt, einúngis á þessu seinast lidna ári, hversu hann stjórnar vorúm tilfellum med vísdómi og gædsku, hversu hann bætti vorar þarfir, blessadi vora atvinnu, farsældi vor fyritæki, vardveitti oss í háskanum, þyrmdi oss vid allri ólukku, sem jafnvel vor afbrot stofnudu oss svo tídum í; allt vottar, ad hann hefur ekki slitid, til þessa dags, umhyggjuna fyrir oss, sem hann tókst á hendur strax og vér innkomum í heiminn. Frá eilífd hafdi hann ályktad, ad bera umønnun fyrir lukku vorri. Hans alvitska þekkti fyrifram tilveru vora, eins og allt þad, sem þéna mætti til vorrar lukku, því allir vorir dagar, vitnar David, voru í hans forsjónarbók skrifadir, þeir ed enn verda skyldu. Hans alvísa rád, ó þú manneskja! ákvardadi fyrirfram, fædingarstad þinn og fædingarstund; hann sá fyrir uppeldi þínu þannig, ad af því flaut þad lífs ásigkomulag og ástand, sem þú lifir nú í; hans verndarauga vakti yfir þér í úngdæminu, svo ad þitt úngdóms gjálifi vard þér ekki ad slisum; ad þú hefur sídan klaklaust og án nauda afkomizt, þad áttu guds mildu forsjón ad þakka. Hann, sem er rádandi sérhvers til-

fellum á jørdunni, hann afstýrdi þeim hættulega sjúkdómi, sem svipt hefur adra lifinu, svo hann ekki grandadi þér; hann gaf þér nægilegt lifs uppeldi, þegar adrir vesludust upp af skorti og húngri; hann unni þér allt umlidna árid ánægjusamra og rólegra daga, í skauti þinna ástkærustu vina og náfrænda, þegar adrir medbrædur þinir á sømu tíd velkjast hlutu í sjáfarins bylgjum, edur lifa ángistar sømu lifi fyrir strídsins eydileggingum, og nú hefur hann loksins látid þig útenda í sømu rósemd einn dag af þessu nýa ári; þessi, eins og allir vorir ókomnu dagar, eru í hans bók skrifadir, þar fyrir einneginn hinn sídasti lifdaga vorra. Þín mánadatala er hjá drottni, segir Job, hann hefur sett þér vist takmark, og yfir þad kemst þú ekki. Efalaust mættum vér meiri kvídboga bera fyrir adkomu þessa vors endadægurs, ef vér væntum þess skyndilega; en hvilik huggun fyrir þig, kristna manneskja! ad daudi þinn er ákvardadur ad rádi þíns guds, þegar hann sjer þér hentugast vid ad skilja. Þú mátt trúa því og hugga þig þar vid, ad hann, sem svo nákvæma fødurlega tilhlutun hefur audsýnt sig ad hafa med lifi þinu, mun ekki sídur vera þinn fadir í daudanum; med øllum sínum atvikum er þinn andlátsdagur af honum ákvardadur fyrirfram, hvort hann skal adkoma seint eda

snemma, á sjó eda á landi, á medal framandi eda vina, á þessu byrjada ári, eptir lángvarandi sjúkdóm edur og hastarlega; þessi og óteljandi fleiri tilfelli, sem hér med eru sameinud, og þér mega á andlátstíma verda mikilvæg, hefur þinn vísi og gódi fadir svo framsett, og þeim þannig fyrifram nidurradad, ad sem nytsamast verda kynni fyrir velferd þína, vini og vandamenn, sem eptir lifa. Ekki kallar hann þig einu augnabliki fyrri í burtu, enn hann sér ad bezti tíminn fyrir þig, sem hann beid eptir, er kominn, ekki leggur hann á þig meira í helsóttinni, né lætur þig leingur lída, enn hann sjer velferd þín útkrefur, allt hlýtur þad eptir hans vilja ad þéna þér til bezta. Hvort þessi dagur, sem enda á líf vort, adkoma muni á þessu eda odru ári, vitum vér ekki; guds alvísu gædsku prísum vér fyrir þad, ad hann hulid hefur þenna dag fyrir oss; en, látum þá, án þess ad gjøra oss um hans adkomu nokkra ángistar þánka, þessa óvissu sem vér sveymum í um hann, gefa oss vid árs byrjunina þá hugvekju, ókvídnir fyrir daudanum daglega vid honum ad búast; en þessi vidbúnadur er í því innifalinn, ad hver og einn af oss leggi allt kapp á, ad afleggja þá løstu, sem hann veit sig hneigdan til, en stundi eins alvarlega ad taka framførum í dygdum og mannkostum, sem láti sig í ljósi í

voru daglegu líferni, einkum med því, ad efla af mætti annara lukku og velgeingni jafnt vorri egin, og gjøra og studla til svo mikils góds á medal brædra vorra í heiminum, sem vér megnum, ad dæmi vors guds, sem audsýnir sérhverjum af oss svo mikinn kærleika; þegar vér ástundum, ad brúka þannig sérhvern dag þess nýbyrjada árs, megum vér fyrifram fullkomlega vona, ad þad verdi oss lukkuár, því þá megum vér fyllilega reida oss med øruggu trúnadartrausti uppá gud, sem í sinni hendi hefur vor ókomnu tilfelli og stýrir þeim øllum oss til bezta; hvort sem oss mætir á því sorg eda gledi, medlæti eda mótlæti, sem vér aldrei med egin varúd edur vitsmunum vorum fáum hindrad, erum vér í hendi vors guds, sem er vor fadir, og vér vitum og reynum, ad hann aldrei lætur sín børn til skammar verda, sem med hlýdnu hjarta fulltreysta honum. Þó daudinn mæti oss á þessu ári, erum vér þar um allteins sannfærdir, ad sá dagur, sem hann ákvardar ad enda skuli líf vort, sé af honum fyrirsjedur hæfilegastur tími til vorrar burtferdar úr heimi þessum.

Vér afhendum oss þá í vors guds mildiríku fødurhønd, óttalausir fyrir þessa sídasta óvinar adkomu, þared gud vissulega bædi mun taka sér á hendur umhyggju fyrir vorum eptirlifandi

ástvinum, hvert heldur það eru vinir edur nánustu vandamenn, en leida oss um daudans dymma dal úr þessu útlegdar landi inn í vort eptirþreyda födurland, þared öll vor afbrot eru oss fyrir Jesú dauda fyrirgefin. Í hans nafni bidjum vér þig, vor fadir á himnum! ad vardveita þessa trú stödunga í vorri sálu, allt þetta ár út. Æ! lát því þessa vora audmjúku bæn, í þess sama Jesú nafni verda oss já og Amen!

---

## Bæn í útgaungu sumars.

Ogripanlega eilífa vera! vér tilbidjum þig vorn gud, vidurkennum þig vorn skapara, þökkum þér vorum velgjörara, og ákollum þig vorn födur! Þú hefur ekki látid þig vera án vitnisburdar þetta aflidna sumar, heldur enn endrarnær. Þú hefur opinberad þig fyrir oss hinn örláta gjafarann allra gæda, þared þú veittir oss svo margt og mikid gott, gafst oss dögg af himni og frjóssamar árstídir. Þín blída sól hefur skinid yfir oss, opt vanþakkláta, án manngreinar álits; allt bendir oss til þín, og lætur oss þreifa á þeim eilífa sannleika: drottinn er öllum gódur, og hann miskunar sig yfir öll sín verk, jördin er full af hans gódgirni. Já, miskuna þig yfir oss, og sýn oss þína gódgirni framvegis, mildi fadir! blessa oss þínar gáfur, sem þín örlætis hönd rétt hefur oss í gegnum náttúruna. Blessa vorn sumarsveita, öll vor heimilisfaung úti og inni, sem þú gefid hefur oss greind og krapta í þínum ótta ad afla oss, svo vér stadist fáum vetrarins óblídu. Þegar sólarinnar fagra ljós fer, vid vetrarins komu, ad daprast vid vorn kalda bústad, æ! þá vertú sjálfur vor hressandi vonar sól og hlífdarskjöldur gegn öllum sárum hugarsorgum, öllum þekktum og óþekktum háskasemdum; fyrirgef oss tímans, lífsins og þinna gáfna misbrúkun. Heyr vora bæn, fyrir Jesú skuld, álít vora þörf og uppfyll hana, eptir þínum dýrdar ríkdómi. Amen!

## Bæn í inngaungu vetrar.

Visdómsfulli aldanna stjórnari, vor gud og mildiríki fadir! þú hefur skapad sumar og vetur, blídt og strídt, hvorjutveggju þessu megnar þú einn ad stjórna þínum mannskepnum til bezta; þinn visdómur er óransakanlegur, og þinn vilji óumbreytanleg gædska, þad er vor einka von og huggan þinna veiku, allsþurfandi skepna, sem med tímanna straumi og tilfellanna biltíngum framleidum vora óvissu dagatölu, sem æfintýri. Æ! vér þekkjum þad og þökkum þína gædsku, gódi fadir! sem verndad hefur oss svo dásamlega og vardveitt allt til þessa tíma, ad vér ekki höfum — svo ad segja — steytt fót vorn vid steini. Þú hefur ekki einúngis hlíft oss vid öllum slísum aflidid sumar, heldur þará ofan ríkuglega blessad oss af loptinu, jördunni og sjónum; farsælt vora útvegu og frambodid oss fleiri blessunar gædi til ánægju og þarfa, enn vér höfum haft vit á ad þyggja og færa oss í nyt; já alla vora naudþurft hefur þú uppfyllt, eptir þínum dýrdar ríkdómi í Jesú Kristi, þad vidurkennir nú vor sála med sonarlegu hjartans þakklæti, er vér hugsum úti þína óumbreyttu guddóms vernd og vidhöndlun vid oss afliddid sumar. Vér höfum verid ómaklegir þinnar nádar, en þú hefur oss í té látid miklar gædsku gnóttir. Þó vér höfum ekki ætíd feingid vorar ómettanlegu, já opt skadlegu, óskir uppfylltar, megum vér þó prísa þína visdómsfullu gódgirni, sem veitir oss þad eina, er þú sjer oss fyrir beztu og því bljúgir og ydrandi vidurkenna: minni erum vér allri þeirri miskunsemi og trúfesti, er þú hefur audsýnt oss, já, of óverdugir erum vér til ad þora ad vænta þess sama af þér framvegis; en fyrir Jesú vors bródurs sakir, sakir þinna egin órjúfanlegu guddóms fyrirheita, vertú oss framvegis nádugur á komanda vetri! tak oss ad þér, sem fadir, vér viljum vera þín börn, og sem börn felum vér oss med lífi og sálu og öllum efnum á þitt miskunar vald. Vertú vor hlífd í háskanum, vort hæli í naudunum, vor leidtogi á öllum vorum óvissu stigum, já, vertú vor allra fadir og gud í Jesú nafni, í hans nafni bidjum vér, í hans nafni bænheyr oss,. Amen!

